# Evangelisk-kristileg
# Lærdóms Bók
handa
# Unglingum.

Ásamt
## Viðbætir,
innihaldandi
## Skrifta- og Bergingar-Bænir.
m. m.



Selst almennt innbundin, 32 Skild.

Leirárgørdum, 1811.
Prentuð á Kostnad Islands konúngligu Uppfrædingar Stiptunar.

Fremur enn á fleirstum naudsynjum, hafa nærverandi stridsøld og tepptir adflutningar, gjørt megna eklu á pappír, einkum prentpappír, ídast um Ríki og Lønd vors Konúngs, og uppleypt honum upp í geysilegasta verd, þar sem flutníngskaup og betalíngur hans í sylfurpeníngum til útlendra er ordinn svo þúngbær. Þessa vegna er verd þessa Upplags Lærdóms-Bókarinnar, med Vidbætir og Stafrofs- og Adqvæda-Töblum, sastsett til 32 Skildínga, á hvørt innbundid qver.

M. Stephensen.

# Advaran
## til
# Kénnendanna.

1). Serhvør Meiníng, hvørt heldur hún ér í Lærdóms- edur Ritníngar-greinum, ellegar í Athugasemdunum og Utskiríngum Greinanna, á náqvæmlega og skilmerkilega ad útþýdast fyrir Barninu, ádurenn þad lærir nockud af þeim utanad.

2) Tornæmir, sem hvørki hafa Efni nje Tíma til ad læra meira, þurfa ecki nema ad vita vel sjálfar Lærdóms- og Ritníngar-greinirnar, sem þar standa prentadar hjá.

3) Kjennendurnir ega ad láta Børnin leita ad þeim Greinum í Bibliunni, sem til er vísad, en þó ecki eru prentadar; þar, sem mørg Børn



ern,

ru, ega þeir ad láta þau lesa þær til Skiptis, og med stuttum Spurníngum útúr, koma þeim í Skilníng um Meiníngunna.

4) Serhvør Lærdóms Grein í Bókinni er svo skiljaulega samantekin, og Atridis Ordin prentud med ødru Letri, ad hægt er hvørjum einum ad spyrja útúr þeim; þess vegna giørdist engin Þørf ad prenta Spurníngarnar, einkum þar Raunin er ólygnust, ad opt og tídum hafa bædi Kiennendur og Lærendur minna þenkt úti Sannleikann, vegna Spurnínganna.



Sá

Sá litli
Lúthers
# Katechismus.

Þetta eru Guds
# Tiu Laga-Bodord.

## Fyrsta Bodord.

Eg er Drottinn Gud þinn, þú skalt ecki hafa annarlega Gudi fyrir mér.

Hvad er þad?

Þad er: Vér egum, yfir alla Hluti fram, Gud ad óttast, hann ad elska og á hann einn ad trúa.

## Annad Bodord.

Þú skalt ecki leggja Nafn Drottins Guds þíns vid Hégóma,

því Drottinn mun ecki halda þann saklausann, sem brúkar hans Nafn hégómlega.

Hvad er þad?

Þad er: Vér egum ad óttast og elska Gud! Engum egum vér Jlls ad bidja hans Nafni, ecki sverja vid þad ne Fjölkyngi fremja, ecki ljúga né svíkja; heldur egum vér Guds Nafn ad ákalla í öllum vorum Naudsynjum, tilbidja þad, lofa þad og því Þackir gjöra.

## Þridja Bodord.

Minnstú ad helga Hvíldardagin: Drottins Guds þíns.

Hvad ler þad?

Þad er: Vér egum ad óttast og elska Gud! Ad vér ecki fyrilítum Predikunina né hans Ord; heldur egum vér þad heilagt ad halda, gjarnan heyra þad og læra.

## Fjórda Bodord.

Heidra skalt þú Fodur þinn og Módur, svo þér vel vegni, og þú verdir lánglífur á Jorduñi.

Hvad

Hvad er þad?

Þad er: Vér egum ad óttast og elska Gud! Ad vér ecki fyrirlítum vora Foreldra, ne þá, sem yfir oss eru bodnir, edur þá til Reidi reitum; heldur þá í Heidri hofum, þjónum þeim og hlýdnir séum, elskum þá og Virding veitum.

## Fimta Bodord.

Þú skalt ecki Mann deyda.

Hvad er þad?

Þad er: Vér egum ad óttast og elska Gud! Ad vér ecki meidum Hold vors Náúnga, edur gjorum honum Mein í nockru; heldur egum vér honum ad bjarga og vidhjálpa, í ollum hans Lífs Naudsynjum.

## Sjotta Bodord.

Þú skalt ecki Hórdóm drýgja.

Hvad er þad?

Þad er: Vér egum ad óttast og elska Gud! Ad vér lifum hreinferduglega, bædi í Ordum og Verkum, og ad hvorr einn elski og í Heidri hafi sína Ektapersónu.

## Sjounda Bodord.

Þú skalt ecki stela.

Hvad er Þad?

Þad er: Vér egum ad óttast og elska Gud! Ad vér ecki gripum Góts eda Peninga vors Náúnga, edur med folskum Kaupeyri eda Undirhyggju undir oss dregum; heldur egum vér honum ad hjálpa, svo hans Góts og Uppeldi ávaxtist og vardveitist.

## Attunda Bodord.

### Þú skalt ecki bera falskann Vitnisburd á móti Þínum Náúnga.

Hvad er Þad?

Þad er: Vér egum ad óttast og elska Gud! Ad vér ecki ránglega ljúgum nockru á vorn Náúnga, ecki svíkjum, baktölum edur ófrægjum hann í nockru; heldur egum vér hann ad afsaka, allt gott um hañ ad tala, og færa alla Hluti á betri Veg.

## Níunda Bodord.

### Þú skalt ecki girnast Hús Náúnga Þíns.

Hvad er Þad?

Þad er: Vér egum ad óttast og elska Gud! Ad vér ecki med Flærd, stundum eptir

eptir Arfi edur Fásteign vors Náúnga, edur undir oss drøgum med Yfirvarpi Laga og Réttinda; heldur egum vér þar til hjálpa og styrkja, ad hann hafi sitt allt óskaddad.

## Tiunda Bodord.

**Þú skalt ecki girnast Qvinnu Náúnga þíns, ecki Þjón né Þjónustuqvinnu, ecki Uxa né Asna, og eckért þad hans er.**

Hvad er þad?

Þad er: Vér egum ad óttast og elska Gud! Ad vér ecki burt-tælum edur lockum frá vorum Náúnga hans Egin-qvinnu, Þjónustufólk eda Qvikfé; heldur egum vér ad áminna og rádleggja, ad hvørt og einn sé samt, og áſtundi ad þjóna, þad honum skyldugt er.

Hvad segir Gud um þessi Bodord?

Hann segir svo í 2 Mós. b. 20, v. 5. 6.: Eg er Drottinn þinn Gud, eg er vandlátur Gud, sem læt Straff fyrir Fedranna Ránglæti koma fram á Børnunum í þridja og fjórda Lid, þad er ad segja: á þeim, sem mig hata. Eg er

líka

líka sá, sem audsýni Miskunsemi í þús: und Lidu á þeim sem mig elska, og vid þá, sem vardveita min Bodord.

Hvad er þad?

Þad er: Gud hótar þeim öllum Pínu, sem afvikja þessum hans Bodordum, því egum vér ad óttast og hrædast hans Reidi, og eckert gjöra á móti hans Bodordum; en þeim öllum, sem þessi Bodord halda, lofar hann sinni Nád, Miskun og öllum gódum Hlutum; Þar fyrir egum vér ad elska Gud, trúa og treysta honum, og breyta eptir hans Bodordum.



# Trúarjátningin.

## Fyrsta Grein.

### Um Sköpunina.

Eg trúi á einn Gud Födur almáttugann, Skapara Himins og Jardar.

Hvad er Þad?

Þad er: eg trúi ad Gud hafi skapad mig, ásamt öllum ödrum Skepnum, og

ad hann hafi géfid mér Önd og Líkama, Augu, Eyru og alla Limi, þar med Skyn og Skilníngarsvit, og ad hann ollu þessu enn þá vid Makt heldur. Hér til veitir hann mér og fyrirsjer nóglega: daglega géfur hann mér Klædi og Skjædi, Mat og Dryck, Hús og Heimili, Fødur og Módur, Akur og Kvikfé, og allt þad, sem gott er, med øllu því eg medþarf til míns Lífs Uppheldis. Hann verndar mig og vardveitir frá øllum Skada og Háska, og øllum illum Hlutum. Allt þetta Gott veitir hann mér af sinni einskjærri, fødurlegri, gudlegri Gódgirnd og Miskun, án allrar minnar Forþénustu og Verdskuldunar; fyrir hvad allt eg á honum Lóf og Packir ad gjøra, honum þjóna og hlýdinn vera. Þetta eru vissulega Sannindi!

## Aunnur Grein.

### Um Endurlausnina.

Eg trúi á Jesúm Krist Son hans, eingétinn Drottinn vorn, hvørr ed gétinn var af heiløgum Anda,

Anda, fæddur af Maríu Meyju, píndur undir þeim pontverska Pílató, krossfestur, deyddur og grafinn; á þridja Degi reis hann upp frá Daudum, og uppsté til Himna, situr nú til Guds Födurs almáttugs hægri Handar, og þadan mun hann koma ad dæma Lifendur og Dauda.

Hvad er þad?

Þad er: eg trúi ad Jesús Kristur sé sannur Gud af Födurnum getinn fyrir allar Aldir, líka sannur Madur, fæddur af Maríu Meyju; ad hann sé minn Drottinn, sem mig glatadann og fyrirdæmdann Mann hefir afrekad, endurleyst og frelsad, frá öllum Syndum og eilífum Dauda, ecki med Gulli eda Sylfri, heldur med sínu heilaga, dýrmæta Blódi, og saklausu Pínu og Dauda, svo eg sé hans eginleg eign, lifi undir hans Valdi í hans Ríki, honum þjóni í eilífu Réttlæti, Meinleysi og Sáluhjálp, líka sem hann er sjálfur af Daudanum upprisinn, lifir og ríkir ad eilífu. Þetta eru vissuleg Sannindi!

Þrid-

## Þridja Grein.

### Um Helguninà.

Eg trúi á heilagann Anda, og ad sé ein heiløg, almennileg, kristileg Kirkja, sem er Samneyti Heilagra, Fyrirgéfníng Syndanna, Holdsins Uppríſa, og, eptir þetta Líf, eilíft Líf.

Hvad er það?

Þad er: eg trúi, ad eg géti ecki af sjálfs míns eginn Krapti edur Skilníngi trúad á Jesúm Krist, minn Drottinn, edur til hans komist, heldur hefir heilagur Andi mig, fyrir Gudspjallañá Kénníngu, kallad og upplýst med sínum Afgiøfum, helgad mig og vidhaldid í réttri Trú; líka sem hann alla ad:a kristna Menn á Jørdu kallar, samansafnar, upplýsir og helgar, og í rétt i Trú til Jesú Krists vardveitir. Í hverri kristilegri Kirkju, hann nádarsamlega fyrirgéfur mér, og øllum Trúudum, daglega allar Syndir, og á efsta Degi mun hann uppvekja mig og alla Menn af Dauda, og géfa mér, med øllum

Rétt-trúudum, fyrir Jesúm Krist, eilífe Líf og Sáluhjálp. Þetta eru vissu-leg Sannindi.

# Drottinnleg Bæn

Fadir vor! þú sem ert á Himnum!

Hvad er þad?

Þad er: Gud vill hér med tilleida oss og locka, ad vér trúa skulum, ad hann sé vor réttilegur Fadir, og vér hans sañarleg Børn, svo vér þess heldur med fullu Trúnadar-Trausti megum hann bidia, eins og góð Børn bidia sinn elskulegann Fødur.

## Fyrsta Bæn.

Helgist þitt Nafn.

Hvad er þad?

Þad er: Guds Nafn er sannarlega sjálfu sér heilagt, þó vér bidjum ecki; en vér bidjum í þessari Bæn: ad þad einnig helgist hér med oss.

Hvørninn skiedur þad?

Nær Guds Ord kénnist réttilega og hreinlega, og vér eptir því lifum heilaglega, eins og Guds Börnum hæfir — þar til hjálpi oss vor elskulegi Fadir á Himnum! — En hvørr, sem ödruvísi kénir edur lifir enn Guds Ord bydur, hann vanhelgar Guds Nafn á medal vor — þar frá vardveiti oss vór elskulegi himneski Fadir! —

## Adrunur Bæn.

### Til komi þitt Ríki.

Hvad er þad?

Þad er Guds Ríki kémur ad sonnu án vorrar Bænar, af sjálfu sér til; en vér vidjum í þessari Bæn: ad þad einnig komi til vor.

Hvørninn skiedur þad?

Nær Gud géfur oss sinn heilaga Anda, sá oss veitir þá Náð, ad vér trúum hans heilaga Ordi, lifum heilaglega hér stundlega, en annars Heims eilífiega.

## Þridja Bæn.

### Verdi þinn Vilji, svo á Jördu, sem á Himni.

Hvad er þad?

Þad er: Guds gódur og nádugur Vilji verdur á Himnum, þó vér bidjum ecki; en vér bidjum í þessari Bæn: ad hans Vilji verdi hér á medal vor.

Hvørninn skiedur þad?

Nær Gud önýtir og hindrar ell ill Rád og vondann Vilja þeirra, sem því valda, ad Guds Nafn vanhelgast, og hans Ríki náir ecki til vor ad koma, sem eru Heimsinns og vor holdlegur Vilji; heldur styrkir hann oss og stoduga gjörir í sínum Ordum og í Trúnni, allt til vorra Æfiloka. Þetta er hans miskunsamur og gódur Vilji.

## Fiórda Bæn.

### Géf oss í Dag vort dáglegt Br[au]

Hvad er þad?

Þad er: Gud géfur ad sonnu dagle[gt] Braud, jafnvel vondum Mønnum, þó vér bidjum ecki; en vér bidjum í þess[ari] Bæn: ad hann láti oss vort daglegt Brau[d] vidurkénna, og med Packlæti til vo[r] medtaka.

Hvad kallast daglegt Braud?

Þad kallast all þ[a]d, sem n[au]dsynlegt til vors Lífs Vidurhalds, sem er: Matu[r]

og Dryckur, Klædi og Skjædi, Hús og Heimili, Todur og Engjar, Qvikfénadur, Góts og Peníngar, gód Ektapersóna, hlýdin Börn, dyggt Þjónustufólk, trúir og frómir Yfirmenn, gód Almúgans Stjórn, hagstæd Vedurátta, Fridur, Heilbrygdi, Sidsemi, Heidur, gódir Vinir, trúfastir Nágrannar, og allt annad þessu líkt.

## Fimta Bæn.

Fyrirgéf oss vorar Skuldir, svo sem vér og fyrirgéfum vorum Skuldunautum.

Hvad er þad?

Þad er: vér bidjum í þessari Bæn: ad Fadir vor himneskur vilji ecki álíta vorar Syndir, svo hann, fyrir þeirra Skuld, vilji ecki veita oss vora Bæn — því vér erum allra þeirra Hluta ómaklegir, sem vér hann umbidjum, og hofum ecki þad verdskuldad — heldur ad hann vildi oss þad allt géfa af sinni eginlegu Nád; — því daglega syndgum vér og forþénum ecki annad enn Straff — svo viljum vér og einnig þar í mót fyrirgéfa af Hjarta þeim, sem oss á móti brjóta, og gjora þeim gott, sem vid oss misgjora.

Sitt...

## Sjøtta Bæn.

Og leid oss ecki í Freistni

Hvad er þad?

Þad er: Gud freistar ad sonnu einkis Manns, en vèr bidjum í þessari Bæn: ad hann vilji vernda oss og vardveita fyrir Syndariñar, Heimsins og Holdsins Vielum, svo vèr hropum ecki, fyrir þeirra Tilteygingu, í Vantrú, Orvæntingu, edur adrar Stór-syndir og Løstu, og þó vèr freistumst af ollu þessu, þá láti hann oss um sídir yfirvinna og Sigrinum halda.

## Sjøunda Bæn.

Heldur frelsa oss frá Illu.

Hvad er þad?

Þad er: Hèr bidjum vèr alls í einu í þessari Bæn: ad Fadir vor himneskur frelsi oss frá ollu Illu til Lífs og Sálar, Farsældar og Heidurs; og ad sídustu, þá vor Daudastund er komin, gèfi oss gódann Afgáng, og taki oss miskunsamlega til sín, úr þessum Eymdadal, inn í Himnaríki.

Amen!

Hvad er þad?

Þad er: ad eg skal vera fullviss, ad þessar vorar Bænir sèu vorum himneska

Födur þacknæmilegar og af honum heyrdar; því hann hefir siálfur skipad, ad ver skyldum med þessum Hætti bidja, og hefir lofad, ad hann vildi oss bænheyra. Amen! Amen! þad er: já! vissulega! þad skal svo vera.

# Skírnar Sakramentid.

Hvad er Skírnin?

Skírnin er ecki einsamallt Vatn, helldur er hún þad Vatn, sem saman er reyrt og bundid med Guds Bodordi, og med Guds Ordi samtengt.

Hvört er þad Guds Ord?

Þad vor Herra Jesús Kristur saadi hjá Mattheó 28 Kap. Farid og gjörid allslags Þjódir ad mínum Lærisveinum, og skírid þær til Nafns Födurs og Sonar og heilags Anda.

Hvad útvegar Skírnin oss og veitir?

Hún útvegar oss og veitir Fyrirgéfníngu Syndanna, frelsar oss frá Daudanum og Fordæmíngunni, en géfur þeim öllum eilífa Sáluhjálp, sem trúa því, sem Guds Ord og Fyrirheit lofa.

Hvør eru þau Guds Ord og Fyrirheit?

Þau vor Herra Jesús Kristur segir hjá Markó í 16 Kap.: Hvørr, sem trúir og verdur skírdur, sá mun hólpinn verda, en hvørr, sem ecki trúir, sá mun fordæmast.

Hvørninn má Vatnid orka svo veglegra Hluta?

Vatnid má ecki slíks orka, heldur veitir þad Guds Ord — hvørt ad er í og med Vatninu — og Trúin, hvør ad slíkum Guds Ordum í Vatn nu trúir; því fyrir utan Guds Ord, er Vatnid einsamalt Vatn, en engin Skírn; en þegar Guds Ord samlagast Vatninu, þá er þad Skírn. Þad er nádarfullt Lífsins Vatn, og Endurgétníngar Laug í heilögum Anda, eins og Páll Postuli segir í Sendibréfinu til Titum, 3 Kap.: Eptir sinni Miskunsemi hefir Gud oss hólpna gjørt med Endurgétníngar-Lauginni og Endurnýúnginni, sem skédur af heilögum Anda, hvørjum hann hefir nóglega úthellt yfir oss, fyrir Jesúm Krist vorn Lausnara, svo vér, réttlættir fyrir hans Nád, yrdum Erfíngjar eilífs Lífs, eptir Voninni. Þessi Ord eru sönn og trúanleg.

Hvad

Hvad merkir þvílik Vatnsskírn?

Hún merkir þad, ad sá gamli Adám í oss, á daglega ad dreckjast og deydast, fyrir Yðrun og Yfirbót, med ollum Syndum og vondum Girndum, og sídan daglega framkoma og upp aptur rísa nýr Madur, sá ed lifa skal í Réttlæti og Heilagleika fyrir Gudi æfinlega.

Hvar stendur þad skrifad?

Postulinn Páll segir í Sendibréfinu til Rómverja 6 Kap. Svo erum vèr þá med Kristi greftradir í Skírninni til Daudans, ad líka sem Kristur er uppvakinn frá Daudum fyrir Dýrd Födursins, svo egum vèr ad gánga í nýu Liferni.



# Altaris Sakramentid.

Hvad er Altaris Sakramentid?

Altaris Sakramentid er sannarlegt Hold og Blód Drottins vors Jesú Krists, undir Braudi og Víni, af honum sjálfum innsett, oss kristnum Mönnum ad eta og drecka.

Hvar.

Hvar stendur þad skrifad?

Svo skrifa Gudspjalla-mennirnir, Matthæus, Markus, Lúkas og Postulinn Páll:

Vor Herra Jesús Kristur, á þeirri Nótt, sem hann svikinn var, tók hann Braudid, gjördi Þackir, braut þad, gaf sínum Lærisveinum og sagdi: takid og etid, þad er minn Líkami, sem fyrir ydur verdur géfinn, gjörid þad í mína Minníngu.

Sömuleidis eptir Qvöldmáltídina, tók hann Kaleikinn, gjördi Þackir, gaf þeim hann og sagdi: dreckid allir hér af, þad er Kaleikur ens nýa Testamentis í mínu Blódi, sem fyrir ydur úthellist til Fyrirgéfningar Syndanna; gjörid þetta svo opt, sem þér þad dreckid, í mína Minníngu.

Hvad stodar oss med þessum Hætti ad eta og drecka hier af?

Þad sýna oss þau Ord, sem hér standa: fyrir ydur gefst og úthellist, til Fyrirgéfningar Syndanna; því ad sönnu veitist oss og géfst fyrir þessi Ordin, í Sakramentinu, Syndanna Fyrirgéfning, eilíft Líf og Sáluhjálp;

þviad hvar Syndanna Fyrirgéfning er, þar er einnig Lífid og Sáluhjálpin.

Hvörninn fær líkamleg Berging verkad svo mikla Hluti?

Berging Brauds og Víns verkar þad í engann Máta, heldur þau Ordin, sem hér standa: fyrir ydur gefst og úthellist, til Fyrirgéfningar Syndanna, hvör Ord ad eru, hjá líkamlegri Bergingu, svo sem Höfudstycki í þessu Sakramenti. Hvörr, sem þessum Ordum trúir, hann ødlast allt þad, er þau innihalda og uppá hljóda, sem er Syndanna Fyrirgéfning.

Hvörr neytir þessa Sakramentis maklega?

Ad fasta og sig líkamlega þar til ad búa, er ad sönnu gód ytri Sidsemi, en sá er sannarlega maklegur og velskickadur, sem Trúna hefir á þessum Ordum: fyrir ydur gefst og úthellist til Fyrirgéfningar Syndanna; en hvörr, sem ecki trúir þessum Ordum, og efar þau, hann er ómaklegur, þviad þetta Ordid: fyrir ydur, krefur fullkomlegrar Trúar í Hjartanu.

## Þackargjörd á undan máltid.

Allra augu vona til þín, Drottinn! og þú gefur þeim þeirra fædu í hentugum tíma; þú uppljúkur þinni hendi, og seður allar lifandi skepnur med þinni blessun.

Dýrd se Gudi Födur og Syni og heilögum Anda, eins og var í upphafi, er ennþá og jafnan um aldir alda, Amen.

Gud Fadir! miskunna þú oss! Kristi Guds Sonur! miskunna þú oss! Gud heilagur Andi! miskunna þú oss!

Fadir vor! þú sem ert á himnum, etc.

Drottinn Gud, himneskur Fadir! blessa þú oss og þessar þínar gáfur, sem vjer medtökum til vor af þinni miskunsamlegri gódgirni, fyrir Jesú Krist vorn Drottinn og Herra, Amen.

## Þackargjörd eptir máltíd.

Þackid þjer Drottni, þvíad hann er gódur, og hans miskunsemi varir eilíflega; hvorr öllu holdi gefur fædu, qvikfjenadinum sitt fódur, og úngum hrafnaña, sem hann ákalla. Hann hefir enga lyst á styrkleika hestsins, ecki heldur þóknast á nockurs manns beinum; Drottni eru velþóknir þeir, sem hann óttast, og til hans miskunar vona.

Dýrd se Gudi, ꝛc. Gud Fadir, ꝛc. Fadir vor, ꝛc.

Þackir gjörum vjer þjer, Drottinn Gud himneskur Fadir! fyrir Jesú Krist vorn Herra, og fyrir allar þínar gáfur og velgjörníngja, þú, sem lifir og ríkir ad eilífu, Amen.

# Fyrsti Kapituli.
## Um Gud og hans Eginlegleika.

### I. Hvørninn vèr fáum þeckingu um Gud.

§. 1. Þ(ï)ís mønnunum ridur mjøg mikid á, ad vèr lærum ad þeckja Gud; þvi annars gætum vèr ecki skilid, hvørninn heimurinn er ordinn til, vèr vissum þá ecki heldur, hvørs vèr mættum vænta um vora hagi eptir daudann, og heidum enga óbrygdula hjálp ad reida oss uppá í vorum mótgaungi.

Merk: Pad eru kollud Trúarbrøgd, ad þeckja Gud og hans vilja, og med hverju móti vjer egum ad heidra hann og hlýda honum.

§. 2. Undir nafninu: Heimur, skilst almennilega bædi Himin og jørd, med øllu því sem í þeim er.

Merk: a) Auk sólarinnar og túnglsins, sjáum vjer á Himninum mikinn fjølda af stjørn-

um. Medal þeirra eru nockrar, sem kallast Plánetur, allteins kringlóttir hnettir, eins og vor jørd, og er ecki ólíklegt, ad í þeim búi margskonar lifandi skiepnur. En þær eginlegu Stjørnur eru Sólir, eins og sú, sem skín nærst oss, og upplýsa med sama hætti hnetti þá, sem þeim eru nálægastir. Túnglid er hnettur eins og jørdin, sem fær, eins og hún, ljós sitt af sólunni.

b) Á jørdunni teljast hierumm tuttugu og fimm þúsundir (25000) lifandi skepna af ýmsu kyni, auk mannanna, sem eru tals þúsund Milliónir (1,000,000,000) — en hvør ein Millión er sama og þúsundsinnum þúsund— (1,000,000). Adrar lifandi skepnur, sem til adgreiníngar frá mønnunum, kallast skynlausar eda mállausar, skiptast í dýr, fugla, fiska, orma, skorqvikindi, og þær skepnur, sem lifa bædi í vatni og á landi. Sérhvørt af kynferdum þessum inniheldur margskonar tegundir, sem eru hvør annari ólíkar.

§. 3. a) Hvørr, sem vill gæta skynsemi sinnar, á hægt med ad þeckja, ad heimurinn hefir ecki gétad ordid til af sjálfum sér, heldur enn hús nockud eda þorp hafi gétad byggt sig sjálft; því enginn sá hlutur er til, sem ecki hefir haft sína orsøk, af hvørri hann er kominn.

b) Heimurinn hefir ecki gétad verid til frá eilífd; því vér sjáum, ad allir

hlut-

hlutir eru umbreytanlegir, og bædi menn og skepnur, samt edru fleiru, hafa upphaf og endir.

§. 4. Frá eilífd hlýtur ad hafa verid ein ædsta Vera, sem skapad hefir heiminn, eda rádid fyrir upptekum hans og niðurredun Þessi Vera kallast Gud, og þessi Gud hlýtur ad vera sá allra vísasti, máttugasti og gædskuríkasti; því þeim mergu og marghättudu hlutum, sem eru i heiminum, er svo vísdómslega nidurradad, og allir eru þeir mjeg nytsamlegir.

§. 5. Gud þeckist ljósast af sinu ordi, hvort lesa má í þeirri heilegu Ritningu, sem kallast Biblia.

§. 6. Þad er víst, ad þann Guds vilja, sem manneskjurnar ábræ[illegible]ir, er ad finna í Bibliunni, og þessvegna kallast hún Guds ord; því hún kennir oss fullkomlega og augljóslega allt þad, sem syndug manneskja þarf ad vita sér til endurbótar, huggunar og sannrar velferdar, bædi í þessu og tilkomanda lífi.

§. 7. Gud hefir sjálfur stadfest sitt ord, med því, ad hann hefir gefid þeim mennum, sem þad hafa ritad, bædi Spá

 til

til ad auglýsa þá hluti, sem enginn madur gat vitad af sjálfum sér, og líka Krapta, til ad framqvæma þau verk, sem enginn hefdi gétad gjört med neinskonar náttúrlegum medölum.

Merk: a) Í heilagri Ritníngu finnast þeir spádómar, sem fyrisegja markverda tilburdi, er engin manneskja gat á þeim tímum fyrirfram séd, og sem þó laungu þareptir eru í ýtrasta máta uppfylltir. Gud einn, sem er alvitur, gat veitt þessum heilögu mönnum þekkíngu um þvílíka atburdi, Es. 21, 1-10. 44, 21-28. Jerem. 31, 31-40. 50, 1-46. Dan. 9, 20-27. Matth. 24, 1-28.

b) Í heilagri Ritníngu er talad um Kraptaverk, sem eru þvílík yfirnáttúrleg verk, ad þau útheimta guddómlegann krapt, þar þad ecki var mögulegt ad gjöra þau þannig med náttúrunnar kreptum. Gud, sem er almáttugur, hefir einúngis brúkad þá heilögu menn til ad gjöra þvílík dásemdarverk, 2 Mós. b. 14, 21-30. Matth. 8, 7-15. Jóh. 2, 1-11. 6, 1-15. 9, 1-38. 11, 17-53. Post. Gb. 3, 2-8.

§. 8. a) Þeir menn, sem undir Guds stjórnun og med hans adstod, hafa skrifad þá heilögu Ritníngu, kallast, yfir höfud ad tala, Spámenn, Gudspjallamenn og Postular.

b) Spá-

b) Spámennirnir, Gudspjallamennirnir og Postularnir, véru útvaldir af Gudi, til ad vera hans Sendibodar medal mannesskjanna, hverjum þeir átti ad kunngjøra hans vilja, og framqvæma hans ásetning á þeim stad og tíma, sem hans speki áleit ad vera þénanlegast.

§. 9. a) Spámennirnir hafa skrifad þann hluta Ritníngarinnar, sem kallast Gamla-Testamentid, ádur enn Kristur fæddist.

b) Gamla-Testamentid inniheldur himneskar bækur, í hverjum Guds vilji var auglýstur Gydíngunum, þeirri þjód, sem Meßías, heimsins Lausnari, átti ega ad rekja kyn sitt til; en þessar bækur eru enn þá í mørgum greinum nytsamlegar handa oss, og þénanlegar til lærdóms, huggunar og vidvörunar.

Merk: a) Bækur Gamla-Testamentisins eru eptirfylgjandi: fimm bækur Mósis, Jósúæ bók, Dómara bókin, Ruths bók, fyrri og sídari Kónganna bók, fyrri og sídari Kroníku bók, Esdras bók, Nehemiæ bók, Esters bók, Jobs bók, Davíds Psaltari, Salómons Ordsqvidir, Predikarans bók og Lofqvædid. Fjórir stærri Spámennirnir: Esajas, Jeremías, med hans Harmagráti, Ezechiel og Daniel. Tólf smærri Spámennirnir: Hóseas, Jóel, Amos,

Amos, Obadias, Jónas, Micha, Nahum, Habakuk, Zephonias, Haggai, Zacharias, Malachias.

b) Kristur hefir stadfest, ad bækur Gamla-Testamentisins seu af Gudi, Lúc. 24, 25.-27. 44. Og á Krists tídum vóru allar þessar bækur samansafnadar í Gamla-Testamentinu, sem enn eru þar.

§. 10. a) Gudspjallamennirnir og Postularnir hafa skrifad þann hluta Ritningarinnar, sem kallast Nýa-Testamentid, eptir ad Kristur var fæddur.

b) Nýa-Testamentid inniheldur í hímislegum bókum allt þad, sem Gud hefir viljad augljóst gjøra fyrir øllum heiminum, um syndaranna endurlausn, vegna Krists, trúna, Guds ótta og dygdina, sem útheimtast til sáluhjálpar.

Merk: a) Nýa-Testamentisins bækur eru eptirfylgjandi: fiogur Gudspiøll, nefnilega: Matthæi, Marci, Lúcæ og Jóhannis; Postulanna Gjørningabók; fiórtán Páls Sendibref, sem eru: eitt til Rómverja, tvø til innbyggjaranna í Korinthu, eitt til Galata, eitt til Ephesus manna, eitt til innbyggjaranna í Philippis, eitt til þeirra í í Kólossaborg, tvø til innbyggjaranna í Thessaloniku, tvø til Tímótheum, eitt til Titum, eitt til Philemon, eitt til enna Ebresku; Jakobs Pistill,

fyrra

fyrra og sídara bref Peturs; fyrsta, annad og þridja bref Jóhannesar, Judasar bref og Jóhannesar Opinberíngar.

b) Kristur hefir med sínum kraptaverkum sannad, ad hann væri sendur af Gudi, og med sama hætti er trúverdugleiki Gudspjallamannanna og Postulanna stadfestur, Joh. 10, 37. 38. 14, 10. 11. Post. Gb. 3, 1. 16. Skrif hinna eldstu kristinna Lærifedra innihalda þá vitnisburdi, sem gjora augljóst, ad Gudspjallamennirnir og Postularnir hafi skrifad þær Nýa-Testamentisins Bækur, sem þeim eru eignadar.

§. 11. Eptir sérlegasta inntakinu skiptist Guds ord í Lögmálid og Evangelium.

a) Í Lögmálinu sýnir Gud oss þad illa, sem vér egum ad fordast, og þad góda, sem egum ad ástunda, þad leidir oss einnig fyri sjónir, straff fyrir hid illa, til vidvörunar, og umbun fyrir hid góda, til uppörfunar.

b) Evangelium inniheldur Guds loford um syndanna fyrirgéfníngu, og sáluhjálp vegna Jesú Krists, sem endurleysti heiminn med sínni pínu og dauda; auk þessa kennir þad oss, eptir hverri röd og reglu, og med hverju móti vér gétum ordid hluttakandi í fyrirgéfníngu syndanna, og þeirri sáluhjálp, sem Kristur hefir oss útvegad.

Merk: I fyrsta parti Frædanna er talad um Logmálid, sem inniheldur Guds Tiu Lagabodord. En Evangelium er í fjórum sídari pørtunum, sem innihalda þrjár greinir Trúarinnar, sjø bænir í Fadir vor, ásamt med Skírnar og Altarisins Sakramentum.

## II. Hvad Ritníngin kénnir oss um Gud yfir høfud ad tala.

§. 1. Heimsins Skapari er sá einasti sanni Gud, og enginn nema hann.

Es. 45, 18. Svo sagdi Drottinn, sá er himininn hefir skapad, sá Gud, sem jørdina hefir tilbúid: eg em Drottinn, og enginn annar Gud er til nema eg.

1 Cor. 8, 4. Vjer vitum, ad skurdgod heidíngjanna eru eckert, og enginn annar Gud er til, nema sá eini.

Merk: a) Heidíngjarnir dýrkudu marga hjáguadi, og leitudu stundum til eins, stundum til annars, en gátu samt ecki vitad, til hvørs af þeim þeir helst skyldu snúa sér, med vissustu von um hjálp og adstod.

b) Vjer høfum orsøk til ad álíta sjálfa oss lángtum sælli, þar vjer þeckjum sannann Gud, og vitum, ad hann er sinn einasti, þar fyrir leitum vjer hælis hjá honum einum, og setjum vort traust og athvarf til hans í øllum vorum naudsynjum.

§. 2.

§. 2. Ritníngin kénnir oss ad þeckja þann einasta sanna Gud, sem Fødur, Son og heilagann Anda, og tileinkar bædi Fedur, Syni og heilegum-Anda, þá einu og sømu guddómlegu veru, í hverri þeir eru óadgreinanlega sameinadir hverr med ødrum, med þeim hætti, sem vér fáum ecki skilid.

Matth. 28, 19. Jesús býdur sínum Lærisveinum: Farid, og gjørid allar þjódir ad mínum Lærisveinum, og skírid þær til nafns Fødursins og Sonarins og þess heilaga Anda.

Joh. 15, 26. Jesús, svo sem eingetinn Sonur Fødursins, segir: En þá ed sá Huggarinn kemur, hvørn eg mun senda ydur frá Fødurnum, sá Sannleiksins Andi, sem af Fødurnum framgengur, hann mun vitna um mig, 2 Cor. 13, 13.

Merk: Þad er ordid ad venju medal kristinna manna, ad kalla Gud Þrennann edur Þríeinann, til ad sýna þar med, ad Fadir, Sonur og heilagur-Andi, hafi einn og sama allrahæsta Guddóm sameginlega hverr med ødrum, Joh. 10, 30. 16, 15. Matth. 3, 16. 17. Joh. 14, 16.

§. 3. Fadir, Sonur og heilagur Andi eru jafnt hluttakandi, í þeirri sømu eilífd, mætti, gædsku og speki, þeir hafa eina og sømu sameginlega dýrd.

Joh.

Joh. 5, 19-23. Jesús segir: hvad hellst Fadirinn gjörir, þad sama gjörir Sonurinn eins, því svo sem Fadirinn uppvekur dauda og gjörir lifandi, svo lífgar og Sonurinn allteins hvörja sem hann vill, og ad allir skuli heidra Soninn, eins og þeir heidra Fødurinn. Lika svo játar sjálfur Jesús, Joh. 17, 5.: ad hañ hafi verid í dýrd hjá Fødurnum, ádur enn heimuriñ var til, Joh. 1, 1-3. 14. Róm. 9, 5. Ebr. 1, 3.

1 Cor. 2, 10. 11. Postulinn Páll segir um heilagann Anda: Gud hefir látid sinn Anda opinbera oss sin visdómsfullu rád; því Andinn rannsakar alla hluti, og jafnvel Guds leyndarád; en hvør manneskjanna er sú, er viti, hvad í manninum er, nema mannsins Andi, sem í honum er? Svo lika veit enginn hvad í Gudi er, nema Guds Andi.

Med likum hætti sýnir og Postulinn, ad þad hafi verid sá heilagi Andi, sem útdeildi yfirnáttúrlegum nádargáfum í hinni fyrstu kristini, hvar á medal hann einnig telur makt til ad gjøra kraptaverk, og sídan segir hann, 1 Cor. 12, 4-11: En allt þetta verkar kröptuglega sa eini og sami Andi, er útskiptir serhvörjum útaf syrí sig, eptir því, sem hann vill, Post. Gb. 5, 3. 4. 1 Cor. 3, 16.

Merk: a) Þad er sannarleg og mikilvæg huggan fyrir oss, ad vjer vitum, ad Sonurinn Jesús Kristur, sem hefir kjennt oss hvörju vjer egum ad trúa, og endurleyst oss med sinni pínu og dauda, er sannur Gud, ásamt.

ásamt med Födurnum; því vegna þess, kunnum vjer med fullri sannfæringu, ad reida oss uppá hann, og fylgja honum í ollu, med stadfostu trúnadartrausti, líka og án efablendni tilbidja hann.

b) Oss er þad mikilsverdt, ad vjer vitum, ad sá heilagi Andi, sem med Guds ordi verkar til vorrar uppíbýngar og endurbótar, er sannur Gud ásamt med Födurnum og Syninum; því þessvegna erum vjer nú fullvissir um, ad vor betrun er moguleg, ef vjer færum oss Guds ord rettilega til nota, og engin vantrú eda efasemi getur haldid oss frá, ad tilbidja heilagann Anda med sama trúnadartrausti, sem Fodurinn og Soninn.

## III. Hvad Ritníngin kennir oss um Guds Veru og Eginlegleika.

§. 1. Gud er Andi eda ósýnileg Vera, sem hefir ad sonnu Frjálsrædi og Skynsemi, en engann líkama edur limu; þess vegna getum vèr ecki sjed hann med líkamlegum augum, ecki heldur útmálad hann med neinni mynd.

Joh. 4, 24. Gud er Andi; því ega þeir, sem tilbidja hann, ad gjöra þad med rettum anda, 1 Tim. 1, 17.

Merk: Gud dýrkast og vegsamast best, med hreinum þanþkum og rádvøndum lifn-adi;

adi; því þeßkonar dýrkan á best vid Þann Gud, sem er Andi.

§ 2. Gud er eilífur, og hefir hvörki upphaf nè endir. Hann er ætíd óumbreyt- anlegur, og verdur jafnan hinn sami.

Ps. 90, 2. Ádur enn fjöllin vóru til, og þú tilbjóst jördina, ertú Gud, og þad frá eilífd til eilífdar, Ps. 102, 27. 28.

Jak. 1, 7. Hjá Födur ljósanna er engin umbreyting, nje umbreytingar skuggi.

Merk: Gud, sem er eilífur og óumbreytanlegur, getur þessvegna gjört þá eilíflega sæla, sem elska hann og hlýda honum. Hans makt þar til rjenar aldrei, ecki heldur umbreytir hann sínum ásetníngi og loford um.

§. 3. Gud er almáttugur, og getur gjört allt hvad hann vill, án ómaks eda fyrirhafnar, en hann gjörir eckert annad enn þad, sem er vísdómsfullt og gott, því hann vill ecki nema þad einúngis.

Ps. 115, 3. Vor Gud er í himninum, hann gjörir allt hvad honum gott þykir, Ps. 135, 6.

Jer. 32, 17. 19. O Drottinn! Drottinn! sjá þú gjördir himin og jörd med þínum mikla krapti! enginn hlutur mistekst fyrir þjer, þú hinn mikli og voldugi Gud, mikill í rádum og mektugur í athöfnum.

Merk: Vjer megum óhultir treysta á hjálp og verndan þess almáttuga Guds, í öll- um

um vorum rettilegu athöfnum, því hann vantar hvorki vilji nie krapta til ad vernda oss. En hann er lika máttugur til ad straffa þá, ad maklegleikum, sem eru honum óhlýdnir.

§. 4. Gud er alvís, og veit allt í einu bædi þad, sem skéd hefir, þad sem nú skédur, og þad sem á allri ókominni tíd mun ské. Vórir heimugleguſtu þánkar eru ecki huldir fyrir honum.

Joh. 3, 20. Gud þeckir alla hluti.

Ps. 139, 1-3. Drottinn! þú ransakar og þeckir mig. Þú skynjar minar hugrenníngar álengdar. Þú sjer gjörla allar minar athafnir.

Merk: Þad væri meſta heimſka, ad ætla ser ad hræsna fyrir Gudi, sem veit allt, og verdur ecki á tálar dreginn med útvortis yfirhylmíngu. Hann veit hvort heldur er; hvad illt eda gott vjer hugsum, tolum eda giorum, jafnvel þó engin manneskja verdi nockurntima áſkynja þar um.

§. 5. Gud er alvitur, og hefir ætíd þann besta tilgáng í sínum áſetníngi, og lika velur jafnan beſtu medel til ad koma honum fram.

Ps. 104, 24. Drottinn! hvörsu mörg eru þín verk; þú gjördir þau öll med vísdómi, Job. 12, 13.

Merk: Vjer megum óhult trúa því, ad hinn alvitri Gud gjörir eckert, án þess þad se nytsamlegt, og allt hvad fram vid oss kemur eptir hans vilja, horfir oss til gagns og góda.

§ 6. Gud er allstadar nálægur, og verkar med sínum krapti allstadar í ellum hlutum. Hann er hvergi fjarlægur sínum skêpnum.

Ps. 139, 7. 8. Hvört skal eg fara frá þínum Anda, Drottinn! hvört gjet eg flúid, svo þú sjáir mig ecki? þó eg færi upp í himininn, þá ertú þar, og þó eg byggi mjer legurúm í undirdjúpinu, þá ertu einnig þar, Jer. 23, 24.

Merk: Hinn gudhræddi má vera med gódu gedi í öllum sínum mótgángi, því Drottinn yfirgefur hann aldrei, heldur vardveitir hann. En sá ógudhræddi hefir orsök til ad skjelfast, jafnvel í leynilegustu fylsnum, því hann gjetur hvorgi umflúid Drottinn, sinn Dómara.

§. 7. Gud er gódur, og audsýnir sínum skêpudu skêpnum svo margar velgjördir, sem hvor þeirra gêtur á móti tekid, eptir þeirra edli, lifernis máta, edur útvortis ásigkomulagi.

Ps. 145, 9. Drottinn er öllum gódur, og hann miskunar sig yfir öll sín verk.

Post. Gb. 14, 17. Gud hefir ecki látid sjálfan sig vera án vitnisburdar, þar hann veitti oss

mikid

mikid gott, og gaf oss døgg af himni, og frióſamar árstidir.

Merk: Oss byrjar, med sannarlegn þacklæti, ad vidurkjenna eins þær smærri, sem hinar stærri Guds gáfur, og aldrei qvída fyrir, hann muni synja oss þess, sem hann sier ad oss er þjenanlegt.

§. 8. Gud er miskunsamur, og fús til ad veita oss hugsvølun í vorum hermúngum, og frelsa oss frá þeim á þeim tíma og med þeim hætti, sem hann ser oss haggvæmast, allt eptir því, sem vor velferd útkrefur.

Ps. 103, 13. Eins og fadirinn er børnunum líknsamur, eins er Drottinn miskunsamur þeim, er hann óttast, 2 Cor. 1, 3.

Merk: J øllum vorum mótgángi medgáng vjer, med von og trausti, leita hialpar hjá miskunsømum Gudi, og hvorki reida oss á vorn eiginn vísdóm nje mannanna adstod, sem opt kann ad bregdast.

§. 9. Gud er heilagur, sem ætíd elskar þad góda, en hefir stærstu misþóknun á øllu því, sem illt er.

Ps. 5, 5. Drottinn! þú ert ecki sá Gud, hvørjum ógudlegt athæfi líkar. Hvørr, sem er vondur, fær ecki ad vera hjá þjer.

1 Pet. 1, 15. Eins og sá er heilagur, sem ydur

ydur hefir kallad, svo verid þjer einnig heilagir í øllu ydar dagsari.

Merk: Vjer egum med varkárni ad fordast allt, sem íllt er, því þad er Gudi á móti. En vjer egum ad ástunda sannann Guds ótta, ef vjer viljum ad honum líki vid oss, og hann se oss jafnan nádugur.

§. 10. Gud er **rèttlátur**, og gengur ríkt eptir ad lifad sè eptir hans Bodordum, hvør ad ellu leiti horfa til vorrar nytsemdar. Þessvegna vill hann umbuna einúngis þeim, er hlýda honum, en straffa þá, sem honum eru óhlýdnir.

2 Mos. b. 20, 5. 6. Eg er Drottinn! þinn Gud, eg er vandlátur Gud, sem læt straff fyri fedranna ránglæti koma fram á børnunum í þridja og fjórda lid, þad er ad segja, á þeim, sem mig hata. Eg er líka sá, sem andsýni miskunsemi í þúsund lidu á þeim, sem mig elska, og vid þá, sem vardveita mín bodord.

Róm. 2, 6. Gud mun gjalda einum og serhvørjum eptir hans verkum.

Merk: a) Þad er mikil heimska, ad hugsa Gud muni sjá ígegnum fíngur vid oss, hvørsu lengi, sem vjer áfram høldum í syndunum, því hans rettlæti útheimtir, ad hann straffi þad vonda ødrum til skelfíngar og vidvørunar, svo ad manneskjurnar leidist eki til lasta og ódygda af vondra eptirdæmum.

b) Med

b) Med þvi Gudi sýniſt ecki þienanlegt, ad ſtraffa ætid eda launa, eptir ſerhvørs verdugleikum, í þeſſu lifi, þá dregur hann opt hvørttveggja undan til þeſs í ødru lifi, hvar bædi ſá ógudlegi og lika hinn gudhrædđi uttaka, hverr uppá ſinn máta, ſin verkalaun.

§. 11. Gud er ſannordur, og dregur oſs aldrei á tálar med neinu falſi. Hann er trúr, og heitir hvørki né lofar edru enn þvi, er hann bædi kann og vill efna.

1. Moſ. 23, 19. Gud er ecki eins og manneſkjan, ad hañ ljúgi, ecki heldur eins og mañeſkjunnar barn, ad hann ſjái ſig um hønd.

Pſ. 33, 4. Drottins ord er ſannarlegt, og hvørju ſem hañ lofar, þad efnir hañ viſſulega.

Merk: Oſs er þad nóg til trúarſtyrkingar, ad vjer vitum hvad Gud hefir látid oſs kunngjøra í ſinu ordi, og þad egum vjer ad halda fyrir ſatt, án nockurrar efaſemi.

---

## Annar Kapituli.
## Um Guds Verk.

---

### I. Hvad Ritníngin kennir um Skøpunina og ſkapada hluti.

§. 1. Gud hefir í upphafi ſkapad himin og jørd af engu, einúngis med

 ſinu

sínu almætti, til gagns og gledi handa øllum sínum lifandi skëpnum.

1 Mos. 1, 1. J úndverdu skapadi Gud himin og jørd, Ps. 115, 15. Es. 40, 26.

Ps. 33, 9. Hann taladi, þá skedi þad. Hann baud, þá stód þad þar.

Merk: Gud hefir med skepuninni svo dásamlega opinberad sitt almætti, speki og gæsku, ad serhverr, sem med alvarlegu athygli gefur giætur ad heiminum, hlýtur þar af ad uppvarsast, til ad heidra og vegsama Gud og þacka honum.

§. 2. Þegar Gud háfdi á sex døgum lokid skøpunarverkinu, og gjørt jørdina byggilega handa øllum lifandi skëpnum, hvíldist hann, eda hætti ad skøpa, á sjøunda degiuum.

2 Mos. b. 20, 11. A sex døgum gjørdi Gud himin og jørd og hafid og allt, sem í þeim er, en hvíldist á hinum sjøunda degi, Ps. 104.

Merk: Sjøundi dagurinn, sem er sá sídasti í vikunni, var ad Guds bodi heilagur haldinn hjá Gydíngum, til þacklætis minníngar um heimsins skøpun; þarámót egum vjer kristnir menn ad halda heilagann fyrsta daginn í vikunni, til þacklátrar endurminníngar um Jesú Krists upprisu.

§. 3. Á sjötta degi vikunnar skapadi Gud him fyrsta Karlmañ, er hét Adam, af moldu, og hina fyrstu konu, sem kalladist Eva, af mannsins sídu. Bædi þau sameingadi Gud í hjúskap til ad auka kyn þeirra, og ad hvørt fyrir sig skyldi stunda annars velferd.

1 Mos. b. 1, 27. 28. Gud skapadi karlmann og qvenmann, blessadi þau og sagdi: aukist þid og margfaldist, og uppfyllid jørdina.

Post. Gb. 17, 26. Drottinn hefir gjørt, ad allar mannanna kynqvíslir búa á øllum jardarhnettinum af einum ættstofni.

Merk: Þad er vidurqvæmilegt, ad allir vjer, án alls greinarmunar, berum umhyggju hvørr fyrir ødrum, og elskum hvørr annann, eins og børn af sama foreldri, þar vjer allir játum, ad Adam og Eva hafi verid vorir fyrstu foreldrar.

§. 4. Medal hinna sýnilegu Guds skepna á jørdunni, er madurinn hin ypparlegasta. Hann er gæddur med skynsemdarfullri sálu, í hentugum líkama handa henni, hann er einnig settur af Gudi til ad ráda yfir øllum ødrum dýrum.

Pred. 12, 7. Moldin hlýtur ad hverfa til jardarinnar aptur, hvar hún ádur var, en andinn til Guds, sem gaf hann.

1 Mos.

1 Mos. b. 1, 28. Gud sagdi til vorra fyrstu foreldra: gjørid ydur jørdina undirgefna, og drottnid yfir fiskunum i sjónum, og fuglunum i loptinu, og yfir øllum dýrum, sem hræraft á jørdunni.

Merk: Manneskjurnar hafa þad mikla fram yfir dýrin, ad þær geta þenkt, talad og breytt eptir skynsamlegri umþenkingu; en med þess meira athygli egum vier ad gæta vor, svo vjer ecki vanbrúkum þessa störu ýfirburdi, á móti Guds vilja, sjálfum oss og ødrum til skada.

§. 5. Líkami mannsins er svo hagqvæmlega tilbúinn, ad bædi gétum vér unnid þad, sem nytsamlegt er med limanna brúkun, og líka notid stórrar ánægju med skilníngarvitunum, hver ad eru: sjón, heyrn, smeckur, ylman og tilfinníng.

1 Mos b. 2, 15. Drottinn Gud setti Adam í aldingardinn Eden, til ad yrkja hañ og vakta. Eph. 4, 28. Postulinn Páll útheimtir, ad vjer skulum ervida, og vinna oss inn eitthvad þarft, svo vjer høfum nockud til ad gefa þeim, sem medþurfa.

Merk: a) Vjer erum allir skapadir til ad ervida, því má enginn eyda sini tíd í ydjulepsi.
b) Þegar vjer njótum einnar eda annarar ánægju med skilníngarvitunum, þá egum vjer ætíd vandlega ad gæta hófs í hvørjum

hlut,

hlut, en fordast alla vanbrúkun, svo Guds gædsta verdi oss ecki til fordjorsunar af sjálfskapa vitum.

§. 6. Sálin er sá mannsins partur, sem þenkir og ályktar. Hún er ódaudlegur Andi, gædd med skynsemi, til ad þeckja hvad rétt er eda rángt, og med frjálsrædi til ad velja hvørt heldur gott eda illt.

Matth. 10. 28 Jesús sagdi: hrædist ecki þá, sem líkamañ deyda, en geta ecki líflátid sálina.

Merk: Þared sálin er ædri partur mannéskjunnar, egum vjer kappkosta, ad láta oss framfara í nytsamlegri þeckíngu og lærdómi, og ætíd girnast hid sanna góda, svo ad vjer hæfilegir verdum til sannarlegrar farsældar, bædi í þessu lífi, og einkanlega í því tilkomanda.

§. 7. Allt hvad Gud skapadi var yfrid gott, og í besta máta lagad til þess, sem þad var ætlad, en einkanlega var manneskjan, svo sem skilníngsfull vera, sköpud eptir Guds egin mynd.

1 Mos. b. 1, 31. Gud sá allt, sem hann hafdi gjört, og sjá, þad var yfrid gott.

1 Mos. b. 1, 26. 27. Gud sagdi: vjer viljum gjøra manninn eptir vorri mynd og líkíngu, þá skapadi hann manneskjuna eptir Guds mynd, hann skapadi þau karlmann og konu;

Merk:

Merk: Eckert af því vonda, sem finnst í heiminum, getur tilreiknast Gudi, sem ecki var orsök til þess. Skuldin verdur einúngis hjá manneskiunni, sem ecki gætti síns medfædda sakleysis.

§ 8. Þær fyrstu manneskjur líktust Gudi i nockru, og í því tilliti er sagt, þær hafi verid skapadar eptir Guds mynd. Þart vóru þær þonum líkar, ad þær hefdu þeckingar-fullann skilníng á ellu, sem þær medþurftu, til ad byrja farsællegt líf, líka hefdu þær í viljanum lyst og laungun til alls góda, án þess ad freistast af nockurri tilhneigíngu til ills.

Pred. 7, 29. Salomon segir: Þad hefi eg fundid, ad þad, sem Gud hefir gjört manneskjuni, er rett.

Hjer á líka vid þad, sem Postulinn Páll segir: Col. 3, 10. ad þeir trúudu hafi íklædst nýrri manneskju, sem endurnýast til þeckingar eptir þess mynd, sem hana hefir skapad, Eph. 4, 24.

Merk: Vier egum ad ástunda, ad verda Gudi líkir ad nýu, og kepptast þessvegna daglega eptir, ad láta oss fara fram í þeckingu og rádvendni, svo vjer verdum ad nýum og betri manneskjum.

§. 9. Auk manneskjunnar, hefir Gud líka skapad adrar skynsemdar-fullar verur, sem

sem hafa ædra edli, og kallast Englar. Þeir eru Andar, hafa því skynsemi og frjálsrædi, en jardneskar manneskjur geta ecki sjed þá, án Guds sérdeilislegrar tilhlutunar, því þeir hafa engann jardneskann líkama.

Ps. 103,20. 21. Lofid Drottinn, þjer hans Englar! þjer øblugar hetjur, sem framqvæmid hans bod! lofid Drottinn, þjer hans þenarar, sem gjørid eptir hans vilja!

§. 10. a) Nockrir af Englunum hafa sjálfkrafa fallid frá sinni hlýdni vid Gud, þeir kallast þessvegna vondir Englar, og lída þad straff, er illska þeirra hafdi tilunnid.

2 Pet. 2, 4. Gud þyrmdi ecki englunum, sem syndgudu, heldur steypti þeim nidur til Helvítis, og setti þá í myrkrafjøtur, svo ad þeir geymist þar til dómsins, Matth 25,41. Joh. 8,44

b) Hinir Englarnir hafa stadid stødugir í hlýdni sinni vid Gud, og kallast því gódir Englar. Þeir hafa yndi sitt af ad skoda Guds dýrd, lofa hann og ákalla, og gjøra allt hvad hann skipar þeim.

Ebr. 1, 14. Eru Englarnir ecki þjónustusamir Andar, útsendir vegna þeirra, sem ødlast skulu sáluhjálpina? Matth. 18, 10. Luc. 1, 26-28. 2, 9-14. Matth. 28, 2-7.

Merk: J þridju bæn af Fadir vor, verdum vjer áminntir, ad gjøra þad, sem Gud vill,

med sömu lyst og ástundun, eins og góðir Englarnir gjöra það á himnum.

## II. Hvað Ritningin kennir oss um Guðs Forsjón, og Viðhald allra skapaðra hluta.

§. 1. Guð viðheldur öllum skøpuðum hlutum með sínu almætti, og lætur þá niðurrøðun í náttúrunni halda sér, sem hann einusinni hefir tilsett, því annars mundi hún fara aflaga.

1 Mos. b. 8, 22. Meðan jørðin er við-líði, skal hvørki linna sáð nje uppskjera, frost nje hiti, sumar nje vetur, dagur nje nótt.

Ps. 104, 13 14. Drottinn minn Guð! þú vøkvar fjøllin hjer ofanað, og fyllir landið með ávøxtum, sem þú gefur. Þú lætur grasið spretta handa skjenaðinum, og korn mønnunum til nota, svo að þú útleiðir brauðið úr jørðunni.

Merk: Vjer megum ætíð reiða oss uppá Guð, hvørninn sem ástaðt er fyrir-oss, því með sínu almætti, speki og gæðska verndar hann jafnan heiminn; en vjer megum heldur aldrei gleyma því, að vegsama hann og þakka honum.

§. 2. a) Guð ber umhyggju fyrir øllum sínum skepnum, smáum og stórum,

um, veitir þeim øllum allt hvad þær vid-þurfa til lífsuppheldis, gætir þeirra og verndar þær.

Ps. 145, 15. 16. Allra augu vona til þín, Drottinn! og þú gefur þeim þeirra fædu í hæfilegann tíma. Þú upplykur þinni hendi, og sedur allar lifandi skepnur med þinni blessun.

b) Sérílagi ber Gud umhyggju fyrir manneskjunum, er med skynseminni og hennar rèttri brúkun gêta ordid njótandi lángtum meiri sælu enn skynlausu skèpnurnar.

Matth. 6, 26-30. Jesús sagdi: Gætid ad fuglunum í loptinu, þeir sá hvørki nje uppskjera, og ecki safna þeir í kornhlødur, samt fædir ydar himneskur Fadir þá. Erud þjer ecki miklu ypparlegri enn þeir? — og þared Gud skrýdir grasid á akrinum, sem stendur í dag, en á morgun verdur kastad í ofn, mundi hann ecki miklu fremur klæda ydur, o! þjer lítiltrúadir? Matth. 5, 45.

Merk: a) Vjer megum ecki misbrúka skynlausar skepnur, eda fara illa med þær, því Gud, sem hefir skapad þær og nærir, vill líka ad þeim vegni vel eins og oss.

b) Vjer egum ecki ad misbrúka Guds gáfur til óhófs, því hann hefir ecki gefid oss þær til annars, enn ad vjer skyldum med þeim efla vort egid og annara sannarlegt gagn.

c) Þared Gud hefir gefid oss vora limi og krapta til þess, vjer skyldum brúka þá til nyt-

nytsamlegrar vinnu, þá vill hann ecki með öðrum hætti bera umhyggju fyrir vorn uppheldi, enn að vjer sjálfir seum jafnframt ydnir og atorkusamir, hvorr í sinu retta standi og embætti, 1 Mos. b. 3, 19. 2 Thess. 3, 11. 12.

d) Það er sannarlegur velgjörníngur af Gudi, ad vjer erum skyldugir ad ervida, því þar med styrkist heilsa líkamans, og sálin upplyfast, ad hugsa um það, sem er gott og nytsamlegt, í stad þess ad sækjast eptir syndsamlegri gledi.

§. 3. Gud, sem er heimsins Drottinn og Stjórnari, stýrir med speki og gæsku öllu því, sem viðber í heiminum, svo ad bædi gott og íllt fær þá endalykt, sem honum þykir haganlegust.

Matth. 10, 29-31. Jesús sagdi: Seljast ecki tveir titlíngar fyrir einn smápeníng? samt fellur enginn af þeim til jardar án ydar födurs vilja. En fremur! öll ydar höfudhár eru líka talin. Ottist þessvegna ecki, þjer erud meira verdir enn margir titlíngar.

1 Mos. b. 50, 20. Jósep sagdi vid brædur sína: þjer ætludud ad gjöra mjer íllt, en Gud ásetti ad snúa því til góds, til ad gjöra það, sem nú er framkomid, og halda mörgu fólki vid lífid.

Merk: a) Vjer egum ad fela Gudi á höndur, hvada árángur verdur af voru löglegu ervidi, þared eckert skjedur án hans vilja eda tilláts.

b) Þegar

b) Þegar Gud leyfir vondum monnum ad gjøra ſkada, vegna þeſs hann vill ecki med makt ſvipta þá frjálsrædi þeirra, megum vjer ſamt treyſta því, ad hann í tækann tíma muni ſnúa því til góds, annadhvørt til vorrar egin eda annara nytſemdar.

c) Jafnvel þo þad á ſtundum líti ſvo út, eins og hinum ógudlegu gángi allt ad óſkum, en gudhræddir megi lída naudir og volædi, er Gud ſamt viſdómsfullur og rettlátur í ſinni ſtjórnun, því hann veit beſt hvad nytſamlegt er, bædi hvørjum útaf fyri ſig, og líka ollum heiminum yfir hofud ad tala, en í hinu odru lífi mun hann viſſulega ſtraffa ſerhvørn og launa ollum, eptir ſem hvør hefir tilunnid.

§. 4. Sérhvørjum ber ad álíta þad ſtand, ſem hann er ſettur, eins og vitſis køllun af Gudi, til ad gjøra þar ſvo mikid gagn, ſem honum eptir fremſta megni, efnum og áſigkomulagi er mogulegt.

1 Sam. 2, 7. Drottinn er ſá, ſem gjørir fátækann og ríkann. Hann er ſá, ſem nidurþryckir og upphefur.

1 Cor. 7, 20. Hvørr einn ſtandi ſtødugur í þeirri ſtett, ſem hann er tilkalladur.

Merk: Hvørr, ſem er óánægdur med ſitt ſtand, ſá áſakar Guds algódu forſjón, og ſýnir í því mikla fávitſku.

§. 5. Hvad sem oss mætir í þessu lifi, hvert það er heldur sorg eda gledi, er oss af Gudi ætlad eptir besta tilgángi, svo vèr høfum ætid orsøk ad vera ánægdir med hans stjórnun og umrád.

Ebr. 13, 5. 6. Látid ydur nægjast med það, sem þjer hafid, því sjálfur Drottinn hefir sagt: eg skal ecki svipta minni hendi af þjer, og enganveginn yfirgefa þig; vjer getum því hughraustir sagt: Drottinn er minn hjálpari, eg skal ecki qvida.

Rom. 8, 28. Vjer vitum, ad allir hlutir verda ad þjena þeim til góds, sem Gud elska.

Merk: Ovidurqvæmilegt er fyrir oss, ad falla í víl eda efasemi, þá mótgángur uppá-kemur, þar vjer vitum, ad Guds Forsjón vakir yfir oss, og ad neydin sjálf verdur ad medali í Guds hendi, til ad efla vort sannarlega gagn.

Lærdómurinn um Skøpunina og Vidhaldid, er stuttlega útmáladur í fyrstu grein Trúarjátníngarinnar í Frædunum.

## Þridji Kapituli.
## Um Manneskjanna Spillingu af Syndinni.

§. 1. Reynslan sýnir, ad manneskj-

jurnar eru ecki svo gódar, sem þær vera ættu. Allir hafa sína bresti, og hjá øllum breisir sér ein eda ønnur syndsamleg tilhneiging, hjá sumum meir enn sumum minna.

Róm. 3, 23. Allir hafa syndgad, og hafa skort á þeirri hrósun, sem hjá Gudi gyldir.

1 Joh. 1, 8. Ef vjer segjum, ad vjer høfum ecki synd, þá svikjum vjer sjálfa oss, og sannleikurinn er ecki í oss.

Merk: Vjer høfum enga orsøk til ad treysta vorum eginn verdugleika, eda fyrilíta adra, því allir erum vjer ófullkomnir, og serhvørr hefir nóg ad ásaka sig fyrir.

§. 2. Sú almenna Spilling manneskjanna er einkanlega þar í fólgin, ad þeir brúka ecki skynsemina, til réttrar yfirvegunar, hvad ed kémur þaraf, ad syndsamleg girnd til jardneskra hluta, sem skilníngarvitin hvetja til, hefir fengid svo mikid vald yfir hugskoti þeirra, ad þeir sækjast eptir tjedum hlutum, svo sem væru þeir þad ædsta góda. Þaraf skéður, ad manneskjan gétur hafst vit á því góda, en hefir samt tilhneigíngu til ens vonda.

Marc. 7, 21-23. Jesús segir: innanad frá manneskjunnar hugskoti, útkoma vondar hugsanir, hórdómur, frillulífi, mord, þjófnadur, ágirnd, illska, svik, lauslæti, øfund, bakmælgi,

 dramb,

dramb, hyrduleysi. Allt þetta kemur út inn-
anad, og saurgar manneskjuna.

Róm. 7, 18. Postulinn Páll játar: Eg veit, ad
í mjer (það er: í syndumspilltri náttúru minni)
býr eckert gott.

Merk: Vjer verdum nákvæmlega ad gæta
vor, svo ad vondar girndir uppqveikist
ecki hjá oss, en alvarlega kappkosta ad nid-
urkjefja þær, þegar þær taka til ad hreifa
ser, svo þær fái ecki yfirhond, og ad vjer ecki
hropum í lesti og ódygdir, sem draga Guds
ónád eptir sig, bædi í þessu lífi og hinu til-
komanda.

§. 3. a) Ecki er Gudi um spillíngu
manneskjunnar ad kenna, því hann skóp
þær fyrstu manneskjur saklausar, eptir sinni
egin mynd.

Jak. 1, 13. Enginn segi, nær hann freistast:
eg freistast af Gudi, þvi Gud getur ecki freist-
ast af nockru illu, hann sjálfur freistar og einkis.

b) Gud hafdi bannad fyrstu mañ-
eskjunum, ad eta ávøxtinn af einu til-
teknu tré, en þau gjørdu það samt, og fyr-
ir þá sök urdu þau ecki einúngis, svo sem ó-
hlýdug, daudastraffi undirorpin, eins og
Gud hafdi hótad þeim, heldur mistu þau
líka þeirra fyrri lyst til ens góda, þar-
ed óregluleg girnd til jardneskra hluta fékk
yfirrád yfir skynsemi og vilja þeirra.

1 Mos.

1 Mos. b. 2, 16 17. Gud Drottinn baud manneskjunni og sagdi: af øllum trjám í aldingardinum máttu eta, en af skilningstrjenu góds og ills máttu ecki eta, því nær sem þú etur af því, skaltu vissulega deya.

Merk: Gud reyndi ecki sjálfs sins vegna vora fyrstu Foreldra, med því ad banna þeim ávøxtinn á trjenu, þar hann vissi gjørla fyrifram, hvørt þau mundu hlýda ser eda ecki, heldur var þørf á einhvørri Reynslu vegna sjálfra þeirra, allteins og vegna serhvørrar annarar skilningsfullrar skepnu. Reynsla þessi átti ad gefa þeim tækifæri til, ad brúka þeirra sjálfrædi, útvelja hid góda, en hafna því illa, eptir eginumþenkingu, þeim sjálfum til stadfestingar í dygd og rádvendni.

§. 4. Ritníngin segir oss, ad einn af þeim Englum, sem fallnir vóru frá hlýdni vid Gud, og sérílagi kallast Djøfull, hafi reynt ad steypa vorum fyrstu foreldrum í sømu naudir, sem hann var sjálfur kominn í, og ginnti Evu til ad eta af forbodna trénu, en hún lockadi sídan mann sinn Adam til sama verks.

1 Mos. b. 3, 1-6. Høggormurinn sagdi vid konuna: Ecki munud þid deya, því Gud veit, ad nær sem þid etid af því trje, munu yckar augu uppljúkast, og þid munud verda eins og Gud í ad þeckja gott og illt. En konan sá, ad trjed

 var

var gott ad eta af, fagurt á ad líta, og girni legt til fródleiks, svo hún tók af þeſs ávexti og át, og hún gaf mañi sínum þaraf, og hañ át. Joh. 8, 44. Djøfullinn var mordingi frá upphafi, og var ecki stødugur í sannleikanum, því sannleiki er ecki í honum. Þegar hann talar lýgi, talar hann af sinu egin, því hann er lygari og lýginnar høfundur.

Merk: Hefdi Gud átt ad hindra vora fyrstu Foreldra frá ad brióta hans bodord, þá hefdi hann ordid ad þvínga þau med almætti sinu, þared þau vildu ecki viljuglega hlýda hans bodi og advørun. En þá hefdu þau miſt ſkynſemi ſina og frjálsrædi, og undireins ordid ad ſkynlauſum ſkepnum, er ecki hefdu ſídan getad tekid á móti þeirri ſælu, ſem þeim var ætlud, hvad þo ecki var ſamqvæmt med Guds ſpeki og gædſku.

§. 5. a) Vorir fyrstu Foreldrar gátu ecki látid þad ſakleyſi gánga í ættir til afkomenda ſinna, ſem þau høfdu ſjálf miſt, en þared ſjálfra þeirra edli var ordid ſpillt og ſkémmt, hlaut þar af ad fylgja ad nidjar þeirra erfdu þeſſa ſpillingu.

Pſ. 51, 7. David játar: Eg er fæddur med misverknadi, og í ſyndinni gat min módir mig, Joh. 3, 6.

b) Søkum þeß, ad ſyndſamleg girnd til jardneſkra hluta féck yfirrád

hjá

hjá vorum fyrstu Foreldrum, er hin sama girnd nú ordin krøptug í allra manna sálum; med árasjøldanum fædir hún af sér ymislegar syndir, en Daudinn er þad straff, sem Gud hefir vidlagt, ef þær drygdar væri.

Róm. 5, 12. Syndin er af einum manni komin í heiminn, og daudinn vegna syndarinnar, svo hefir daudinn sér til allra manna innþreyngt, því allir hafa syndgad, Róm. 6, 23.

Merk: a) Eins og þad trje, sem er af íllri tegund, getur ecki borid bestu ávexti, eins er þess ecki heldur von, ad foreldrar, sem tapad hafa sakleysi sínu, og eru spilltir af vondum girndum, kunni ad geta goda og med ollu saklausa afkomendur, því verkanin verdur ad líkjast orsøkinni, Matth. 7, 16-18. Joh. 14, 4.

b) Gud vildi ecki hindra, ad sú almenna spilling, sem af hinum fyrstu monnum kom inní heiminn, útbreidist, eptir náttúrlegu edli og rás, til allra þeirra afkomenda því hann hafdi frá eilífd fyrirhugad þeim ollum nægilegt lausnarmedal vegna Krists, Róm. 11, 32. Gal. 3, 22.

§. 6. Hvørsu stór, sem spillingin var, sem komin er yfir allar manneskjur, hefir Gud þó hagad því svo, ad í vorum hjørtum skyldi eptir verda drottnandi.

eptirlángan til luckii og velgengnis, sem ecki leyfir oss ad vera öldúngis byrdulausum um vora egin velferd.

Eph. 5,29. Aldrei hefir neinn hatad sinn egiñ líkama, heldur fædir hañ og endurnærir.

Merk: a) Sannarleg farsæld hjer í heimi er einúngis innifalin í velgrundvödri siñis rósemi og ánægju. Hvad, sem móti henni stridir, er ecki verdt ad sækjast eptir, þar þad er miklu meir farsæld vorri til hindrunar enn eblíngar.

b) Lesti og ódygdir, sem án efa munu eptirá abla oss mikils sinnis óróa, eigum vjer af fremsta megni ad fordast og af ad leggja.

§ 7. Spillingin hefir samt ecki getad svo mikid adgjört, ad vér séum öldúngis tilfinníngarlausir um þad, sem er rétt eda rángt í vorum athöfnum; því eptir Guds alvísu rádstöfun höfum vér allir Samvitsku, er lætur oss finna til innvortis ánægju; þegar vér gjörum þad, sem rétt er, en þarámót uppvekur innvortis óánægju og órósemi, þegar vér tökum oss eitthvad þad fyrir hendur, sem ecki er rétt eda leyfilegt.

Rom. 2, 14. 15. Þegar heidíngjarnir, sem ecki hafa lögmálid, gjöra þad af náttúrunni, sem lögmálid skipar, þá eru þeir, þó þeir ecki hafi lögmálid, sjálfum sér í lögmáls stad; því

þeir

Þeir sjne, ad løgmálsins verk eru skrifud i þeirra hugskoti, med því þeirra samvitska ber þeim vitni, og þeirra þánkar, sem ásaka eda afsaka þá innbyrdis.

Merk: a) Vor samvitska er gód, þegar vjer finnum hjá sjálfum oss, ad ekkert verdur med rettu fundid ad vorri breytni. Þará móti er vor samvitská vond, þegar vjer finnum, ad vjer ekki hefum hegdad oss eins og vera ber.

b) Stærri qvøl kann ekki ad hugsast enn vond samvitska, sem ofsækir med sinn álasi bædi í lifi og dauda; þessvegna egum vjer því heldur kapplosta, ad lifa gudrækilega, svo vjer getum haldid gódri samvitsku.

c) Hjá morgum sefur samvitskan um stundarsakir, medan þeir ecki gefa gætur ad illverkum sínum; en einhverntíma uppvaknar hún samt, mun þá og upp koma þess stærri qvídi og ángur í sálunni.

§. 8. a) Manneskjan syndgar, þegar hún verdur brotleg í einhverju, sem strídir á móti Guds bodi; þess vegna er þad allt synd, sem ecki er samqvæmt med Guds vilja.

1 Joh. 3, 4. Hvørr sem syndina drýgir, hann gjørir þad, sem er móti løgmálinu, því þad er synd, sem er móti løgmálinu.

b) Manneskjan drýgir Synd med hugrenningum og girndum, þegar hún

hefir

hefir ánægju af ad hugsa um þad, sem Gudi er á móti, og sækist eptir því.

Matth. 9, 4. Jesús sagdi vid Pharisæana: því hugsid þjer svo illt í ydar hjörtum? Matth. 15, 19. 20.

c) Manneskjan drýgir synd med ordunum, þegar hún talar um eitthvad, sem annadhvort ecki sambýdur þeirri vyrdíngu, er hún á Gudi ad veita, eda móðgar, ellegar skadar náúngann

Matth. 12, 36. Jesús sagdi: Manneskjurnar ega ad standa reikníng á dómsdegi, af serhvörju óvidurqvæmilegu ordi, sem þær hafa talad.

d) Manneskjan drýgir synd med verkunum, þegar hún annadhvert gjörir eitthvad, sem Gud hefir bannad, eda lætur ógjört, sem hann hefir skipad.

1 Joh 3, 6. Hvörr sem stöduglega heldur sér til Guds, drýgir ecki synd; hvör sem syndina drýgir, hefir hvörki sjed Gud nje adhyllst hañ.

Jak. 4, 17. Hvörr sem kann ad gjöra gott, en gjörir þad ecki, hann syndgar.

Merk: Þad er ecki nóg, ad vjer fordumst útvortis ill ord og verk, sem gjöra oss jafnvel fyrir mönnunum andstyggilega; heldur egum vjer einnig ad gæta vor vid illum hugrenníngum, sem ecki eru huldar fyrir alvísum Gudi, er hefir vidbjód á þeim, og mun straffa þær.

§. 9.

§. 9. a) Allar syndir eru ad sønnu ráungindi í sjálfum sér, samt eru þær ecki allar jafnstórar, edasemu refsingar verdar.

Joh. 19, 11. Jesús sagdi vid Pilatus: sá sem sieck mig þier í hendur, hefir meira syndgad enn þú.

b) Sannkristin manneskja getur syndgad af breiskleika, annadhvert af því hún hefir ecki betur vit á, jafnvel þó hún bædi gæti og ætti ad hafa haft vit á því, ellegar ad hún gjørir þad í brádrædi og móti vilja sínum; en strax sem hún verdur vør vid yfirsjón sína, ángrast hún af henni, og, med einlægum ásetníngi ad vilja betra sig, bidur Gud, fyri Krists sakir, um nád.

Róm. 7, 17. 18. Viljann til þess góda hef eg ad sønnu, en ecki kraft til ad framqvæma þad; því hid góda, sem eg vil, þad gjøri eg ecki, en hid vonda, sem eg ecki vil, þad gjøri eg.

c) Sinn ógudlegi syndgar af ásetníngi, þótt hann viti betur, og hann hefir yndi af því, án þess hann ángrist af illsku sinni, eda bidji fyrigefníngar á henni, og leitist vid ad betra sig.

Phil. 3, 18. 19. Margir breyta, eins og eg optsinnis hefi sagt ydur, og med grátandi tárum segi enn, ad þeir eru óvinir krossins Krists, hvørra afdrif verda, ad þeir tortýnast;

þeir, sem hafa magann fyri sinn Gud, þykir sémi ad skømmunum, og sækjast eptir jardneskum munum.

d) Hverr sem syndgar af ásetníngi syndir þar med, ad hann metur Gud einkis í hjarta sínu, og lætur ecki ásaunast, hvorsu ófegjanlega gædskurkur Gud er; þessvegna er þad réttvíst, ad hann fái hardara straff enn sá, sem illa breytir, án þess ad gjøra þad af ásetníngi.

Luc. 12, 47. 48. Sá þjón, sem veit sins Herra vilja, og býr sig ecki til, eda breytir eptir honum, mun straffast hardt; en hinn, sem ecki veit þann vilja, og hvørjum þó hefir á ordid, hann mun straffast minna.

Merk: Þad stridir øldúngis móti þeirri elsku og vyrdíngu, sem sannkristin manneskja á ad hafa fyrir Gudi, ad gjøra nockud af ásettu rádi, sem hún veit ad stridir móti Guds vilja, ellegar láta nockud af því med ásetníngi ógjørt, sem hún er skyldug ad gjøra. Hverr sem af hjarta vyrdir og elskar Gud, sá fordast med mesta varúd ad brjóta vísvitandi á móti nockru hans bodordi, 1 Mos. b. 39, 9. Róm. 6, 15.

§. 10. a) Manneskjan getur ecki ødlast neina sannarlega farsæld af syndinni, því hennar ímyndaa kjæti hverfur skjótt, en bæti

bædi órósemi og blygdan samvitskunnar, og Guds ónád fylgja eptir henni, er ásamt med steypir manneskjunni, og þad stundum strax í þessu lífi, í margskyns eymd og volædi.

Ordsqv. 14, 34. Syndin er lands og lýda töpun, 1 Tim. 6, 10. Jak. 4, 1. 2.

b) J eptirkomanda lífi verda strax qvalir og útilokan frá Guds nád og miskunsemi, víss gjøld og umbun syndanna, ef vér høldum, án umvendunar, áfram í þeim, med gêdþeckni og af ásetníngi.

Rom. 2, 8. 9. Yfir þá, sem eru mótsnúnir, og ecki hlýda sannleikanum, en fallast heldur á ránglætid, skal koma reidi og hefnd; hrellíngar og harmqvæli skulu vera yfir allra manna sálum, sem illsku drýgja.

Merk: Mjøg hættulegt er, ad láta syndanna tillockanir rótfestast í hjartanu; því auk þess, ad manneskjan spillir þar med hugarfari sínu og sinnislagi, svo getur sú synd, sem opt er um hønd høfd, ordid fljótt ad vana, og vaninn um sídir ad forherdíngu, hvar af umvendanin verdur lángtum torveldari.

---

# Fjórdi Kapituli.
## Um þad, hvorninn Jesús Kristur hefir vidrétt Manneskjurnar úr þeirra Spillingu.

§. 1. Gud vildi ecki ad Syndin, sem í heiminn var komin, skyldi steypa manneskjunum í eilífa tøpun, án þess nockur von vari um frelsi. Þeßvegna hefir hann, af sinni ílkaarfullu elsku, tilskickad þeim Endurlausnara, til ad frelsa þær frá syndarinnar skadlegu verkunum, en veita þeim aptur adgáng til Guds náðar, bædi í þessu lífi og því tilkomanda.

Joh. 3, 16. Jesús sagdi: Svo elskadi Gud veröldina, ad hann gaf í daudann sinn eingetinn Son, til þess, ad allir þeir sem á hann trúa, ecki skuli fyrirfarast, heldur hafa eilífa sælu, Rom. 8, 32. Eph. 1, 6. 7.

Merk: a) Endurlausnarinn var ecki sendur til ad frelsa syndugar manneskjur frá þeirra líkamlegri naud, því þeirra sannarlega gagnútheimtir, ad Gud verdi leyfa ad hormúngar og mótgángur uppáfalli fyrir þeim, til ad uppvekja hjá þeim laungun eptir betra lífi,

og koma þeim til ad afneita veraldlegum hjegóma, Ebr. 13, 5-11. Jak. 1, 2-4.

b). Eptir speki sinni og elsku, sendi Gud Endurlausnarann, til ad afmá syndarinnar skelfilegu verkanir, er olla mannskjunum mesin eymdar og bágindа; því syndinni sylgja: Guds reidi, óróssemi samvitskunnar, ervænting í daudanum og útilokun frá ollumsóma og gledi í eilífdinni, hvar óguðlegir ecki eiga von nema á qvol og ángist, 1 Joh. 3, 4. 2 Cor. 5, 21.

§. 2. Endurlausnarinn er Jesús Kristur, Guds himneska Fødurs eingetinn Sonur, sem frá eilífd hefir verid sameinadur med Fødurnum í einni og somu sannarlegu guddómlegri veru, en kom í heiminn á þeim tíma, sem Gud hafdi ádur tiltekid, í sínum fyrirheitum.

1 Joh. 4, 10. 15. Svo var þeirri elsku varid, ecki ad vjer elskudum Gud, heldur ad hann elskadi oss, og sendi sinn Son, til ad forlíka fyrir vorar syndir. Hvørr sem medkennir, ad Jesús er Guds Sonur, honum hjálpar Gud stadfestlega, og hann heldur sjer stødnglega til Guds, Joh. 3, 17. 18.

1 Mos. b 22, 18. Drottinn gaf Abraham þad loford: af þínu afqvæmi skulu allar þjódir á jørdunni blessun hljóta, Gal. 3, 16. 1 Mos. b. 3, 15.

Merk: a) Eptir Guds egin skipun var Endurlausnarinn kalladur Jesús, er þýdir: Frelsari, svo þarmed yrdi sýnt, ad hann ætti ad frelsa mannkynid frá þeirri eymd, í hvörja syndin hafdi steypt því, Matth. 1, 21.

b) Endurlausnarinn kallast Kristur eda Meßias, vegna þess, ad Spádómarnir tala um hann, eins og þann Drottins smurda, er vera skyldi Herra og Konúngur í andlega Nádarríkinu, hvørt Gud ætladi ad láta hann stipta, til syndaranna frelsis.

c) Enginn annar enn Jesús af Nazareth getur verid Meßias, því öll þau kénnteikn, sem honum eru tillögd í Guds fyrirheitum, ega fullkomlega heima hiá honum, Joh. 7, 40. 42. Matth. 26, 63. 64. Jóh. 4, 25. 26. 9, 35-38. 18, 32-37.

Meßias átti, ad því leiti, sem hann var manneskja, ad vera kominn af Abrahams ætt, 1 Mos. b. 22, 18. og Davíds kynþætti, Es. 11, 1. líka fædast í Bethlehem Davíds borg, Mich. 5, 1.

Meßias átti ad koma í heiminn, ádur enn Gydíngar hefdu öldúngis misst sína egin valdstjórn, 1 Mos. b. 49, 8-10. ádur enn seinna musterid í Jerúsalem eydilagdist, Hagg. 2, 7. og ádur enn sú tíd væri lidin, sem Spámadurinn Daniel hafdi tiltekid, Dan. 9, 24-27.

Meßias átti fyrst ad lída sára pínu og líflátinn verda, en strax þar eptir upprísa

af

af grofinni til óforgengilegs lífs, og med því ad útbreida sinn lærdóm, snúa mørgum þjódum frá skurdgodadýrkun til sannleiksins þeckingar, Ps. 22, 1. 19. Es. 53, 1-9. Ps. 16, 5-11. 110, 1-4. Es. 42, 1-9. 53, 10-12. 55, 1-5.

Allt þetta er framkomid einúngis á Jesú frá Nazareth, og getur sídan ecki framkomid vid neinn annann, því þau kennimerki med hverjum þeim tilkomandi Meßias var lýst, eru ecki lengur til.

§. 3. Guds Son Jesús Kristur er, ad því leiti, sem hann er manneskja, kominn í heiminn á þann hátt, ad hann fæddist af María Meyu. Hann sameinadi þá guddómlegu náttúru vid hina manndómlegu, sem tilbúin var í módurlífi af heilags Anda krapti, med þeim hætti, sem vér ecki gétum skilid, svo ad hann er undireins bædi Gud og madur, og verkar ætíd med bádum sínum náttúrum.

Matth. 1, 20. 21. Engillinn sagdi vid Jóseph, sem var trúlofadur Maríu: Vøkladu ecki fyrir þjer ad taka María þína festarkonu heim til þín, því hennar fóstur er af heiløgum Anda, og hún mun son fæda, og hans nafn skaltu kalla Jesús, því hann mun frelsa sitt fólk af þess syndum, Lúk. 1, 35.

Rom. 9, 5. Kristur er eptir holdinu, eda sinni manndómlegu náttúru, af Fedrunum, hann sem er Gud yfir øllu, blessadur ad eilífu.

Merk: Allt þad, sem Jesús Kristur útverkadi handa oss, gjørdi hann ecki, sem einúngis manneskja, heldur sem Gud og madur undir eins. Þess vegna hofum vier líka sterkustu fullvissu um, ad hans lærdómur sie af Gudi, og ad sú endurlausn, sem hann hefir oss afrekad, sie fullgyld.

§. 4. a) Jesús Kristur vard sannarleg manneskja med sálu og líkama, eins og vér, en þó án syndar, og fullkomlega heilagur í øllu sínu framferdi.

Joh. 8, 46. Jesús spurdi sína óvini: hvørr af ydur getur sannad uppá mig nockra synd? 1 Pet. 2, 22. Ebr. 7, 26.

b) Jesús sýndi í øllu sínu líferni hlýdni vid øll Guds Bodord, bædi til ad afreka oss betra rèttlæti, og líka til ad eptirláta oss hid besta eptirdæmi, hvørju vér folgja skyldum.

Rom. 5, 9. Eins og af þess eina manns (Adams) óhlýdni, eru þeir mørgu syndugir ordnir, eins munu líka þeir mørgu af hins eina Jesú Krists hlýdni verda rettlætir.

1 Pet. 2, 21. Kristur hefir oss eptirdæmi gefid til þess, vier skyldum feta í hans fótspor, Matth. 11, 29. Phil. 2, 5.

Merk:

Merk: a) Eins og Jesú Krists eptirbreytendur, egum vjer ad hans dæmi, med alvarlegri ástundun audsýna, ad vjer seum ánægdir med þad, sem Gud vill vera láta, Matth. 26, 39. Líka hafa eptirlaungum og kapp á ad gjøra þad, sem honum er þóknanlegt, Joh. 4, 34.

b) Vjer egum, eptir Jesú dæmi, láta ásannast í verkunum, ad vjer elskum alla menn, med því ad kenna í brjosti um þá aumu, og hjálpa þeim eptir efnum, Lúk. 7, 11 - 17. Matth. 9, 35. 36, líka fúslega fyrigefa vorum mótstodumønnum, Lúc. 23, 34. og vera reidubúnir ad þjena þeim í øllu, Joh. 13. 1 - 20.

c) Vjer egum keppast eptir ad líkjast Jesú þolinmædi, 1 Pet. 2, 23. Matth. 26, 47 - 54. Lúc. 22, 61 - 68. einnig í því, ad vera ánægdir og afneita sjálfum oss vegna sannleikans, Matth. 8, 20.

§. 5. a) Þegar Jesús var þrjátygi ára gamall, lét hann skíra sig í ánni Jórdan, og þá var af himnum med dýrdlegum hætti kunngjørt, ad hann væri Guds Sonur.

Matth. 3, 16. 17. Þegar Jesús var skírdur, stje hann jafnskjótt upp úr vatninu, og sjá, ad himnarnir lukust upp yfir honum, og hann sá Guds Anda ofan stíga og yfir hann koma, og sjá, ad Røddin af himni sagdi: þessi er Sonur minn elskulegur, á hvørjum eg hefi velþóknun.

b) Jesús var, strax eptir skírnina á eydimörku reyndur í fjörutýgi daga, med margskyns hætti, svo ad hann, med sinni stöduglyndi, gæfi oss dæmi til ad breyta eptir

Marc. 1, 12. 13. Andinn (Guds Andi) færdi hann jafnskjótt út á eydimörkina, og Jesús var þar í fjörutýgi daga, og vard freistadur af Andskotanum, Matth. 4, 1-11.

c) Eptir ad Jesús var skírdur, og hafdi afstadid freistínguna, ferdadist hann um kríng medal Gydínga á fjórda ár, og kénndi þeim eins og Spámadur af himnum sendur, Guds ráð og vilja, um syndaranna frelsun og sáluhjálp.

Mark. 1, 14. 15. Jesús predikadi lærdóminn um Guds ríki, og sagdi: tíminn er kominn og Guds ríki nálægist, iðrid ydur og trúið Evangelió, Matth. 4, 23.

d) Medan Jesús gékk í kríng og kénndi, stadfesti hann opt kénníngu sína med miklum og gædskuríkum kraptaverkum, sem augljóslega sýndu, ad hann var af Gudi sendur.

Matth. 11, 4. 5. Jesús ságdi vid Lærisveina Jóhannesar Skírara: farid og kunngjörid Jóhannesi þad, sem þjer heyrid og sjáid: blindir fá sýn, halltir gánga, líkþráir hreinsast, daufir heyra, daudir upprísa, og voludum verdur Evangelium bodad, Post. Gb. 10, 37. 38.

Merk:

Merk: a) Med Jesú Krists dýrmæta lærdómi er hvad af hverju afmád og upprætt sú vidsfinggilega hjátrú og afgudadýrkan, sem ádur drottnadi í veraldinni, 1 Cor. 8, 4-6.

b) Med Jesú lærdómi hefum vier fengid retta þeckingu á Gudi og hans vilja, í því sem vidkemur syndaranna sáluhjálp, Joh. 14, 5-7. 17, 3. 6. 8. 14. 17.

c) Jesús hefir kennt oss þad, sem vier annars værum ecki fullvißir um, nefnilega: ad annad líf se til eptir þetta, og ad gudhræddir komi eptir daudann í eilífa sælu, Joh. 3, 14. 18. 5, 21-29. 1 Pet. 1, 3-5. 2 Tim. 1, 8-10.

d) Jesú lærdómur er oss besti leidarvísir til dygdafulls lífernis, Matth. 5, 6. 7. 13. 15. 18. 20. 22. 25. Luc. 10, 16. 18. Joh. 13, 14-16.

e) Hverr sem med einlægu hjartaþeli vill medtaka Jesú lærdóm og fylgja honum, mun sannarlega komast ad raun um, ad í honum er gudlegur kraptur, til ad betra hjartad, hugga samvitskuna og stadfesta vonina um eilífa sælu. Þarmed styrkist líka á kroptugasta máta vor fullvißa um, ad þeßi lærdómur se Fødursins ord, sem hann ljet Soninn opinbera mannkyninu, og ad sá lærdómur er þeßvegna í sannleika guddómlegur, Joh. 7, 16. 17. 8, 31-36. 12, 44-50. 14, 8-10.

§. 6. a) Medan Jesús kenndi á Gydingalandi, var hann undirorpinn margs-

konar offsóknum, þared Høfdíngjar Gyd-inganna fyrir esunðarsakir yfir því, hvad mikid honum tókst vid almúgann, og af þat-ri vid Jesúm, af því hann vildi ecki fegra vondsku þeirra, reyndu til bædi med vjelum og ofríki, ad taka hann af lífi.

Luc. 19, 47. 48. Hann kenndi daglega í must-erinu, en yppurstu Prestarnir og Skriftlærd-ir og Høfdíngjar lýdsins sóktu fast eptir ad fyrirkoma honum, þó fundu þeir eckert, er þeir gæti gjørt, því allt fólkid hnje ad honum, og hlýddi honum; Matth. 12, 14. 22, 15-21. 27, 18. Luc. 20, 20.

b) Jesú eginn Lærisveinn, svikarinn Júdas, var um síðir keyptur til ad sel-ja hann Høfdíngjunum í høndur, sem þá dæmdu hann, án allra saka, til dauda, og fengu hann heidnu Landsdómaranum, heim pontverska Pilatusi. Þessi Pilatus óttadist reidi Keisarans, hverri þeir hótudu honum, og lét, móti vilja sínum, húdstrýk-ja Jesúm, þyrnikrýna, hæda og negla, eins og íllvyrkja, á krossinn, hvar hann uppgaf sinn Anda.

Matth. 20, 18. 19. Jesús sagdi fyrirfram vid sína lærisveina: sjá! vjer førum nú upp til Jerúsalem, og Mannsins Sonur mun seljast Prestahøfdíngjum og Skriftlærdum í hendur,

og

og þeir munu dæma hann til dauda, og fá hann Heidíngjum til ad láta spotta hann, hýdstrýkja og krossfesta, Matth. 16, 21-23. 17, 22. 23. Luc. 18, 31-34. Matth 26, 14. 16. Marc. 14, 43-46. Joh 13, 21-30. 18, 1-9. Luc. 23, 46. Loksins kalladi Jesús á krossinum med hárri raust, og sagdi: Fadir! í þínar hendur fel eg minn Anda, og í því hann sagdi þad, uppgaf hann sinn Anda, Joh 19, 33-37.

c) Jesús vard ecki einúngis ad þola sára pínu á líkamanum, heldur leid hann líka á sálunni beiska qvøl og ángist, vegna mannanna synda.

Matth. 26, 37-39 Þegar Jesús var kominn í Grasgardinn, tók hann ákaflega ad hriggjast, segjandi: mín sál er hrigg allt til daudans; þar eptir geck hann leugra fram, fiell fram á sína ásjónu, bad og sagdi: minn Fadir! ef þad er møgulegt, þá lídi þessi kaleikur frá mjer! þó ecki eins og eg vil, heldur eins og þú vilt. Matth. 27, 46. Luc. 22, 41-44.

Merk: a) Jesús sýndi med hugprýdi sinni, ad hann var ecki hræddur fyrir daudanum, þegar hann geck á móti óvinunum, sem vóru ad leita ad honum, hann vissi líka ad hinir himnesku Andar-mundu veita sier lid, ef hann vildi slíta sig úr høndum óvina sinna; og þar þeir allir duttu til jardar þegar hann taladi, sýndi hann hvad hægt sier hefdi veitt, ad sleppa frá þeim, ef hann hefdi viljad, Matth. 26, 53. Joh. 18, 4-6.

 b) Þad

b) Þad var ecki ad undra, þó Jesú, eins og manneskju, bløskradi ad hugsa til þeirrar ógnarlegu pínu, er fyrir honum lá; en laungu ádur vissi hann, hvad yfir sig mundi koma, var samt æt ó óhræddur og reidubúinn til ad taka þad alltsaman, mannanna vegna, uppá sig, eptir sins fødurs vilja. Þaraf er audrádid, ad hans mikla sálar ángist hafi einkanlega komid af því, ad hann setti ser fyrir sjónir allra syndugra manna misbrot, svo viddjódsleg, sem þau eru, og sá ad øll þau væru ser nú tilreiknud, Es. 53, 6-12. Ebr. 5, 7-9.

§. 7. a) Jesús var øldúngis saklaus, og vard ad lída, án þess hann sjálfur hefdi í nockru misbrotid eda syndgad.

Luc. 23, 4. Pilatus sagdi vid Kennimannahøfdíngjana og fólkid: eg finn enga søk hjá þessari manneskju, Matth. 27, 4. 18. 19. 23. 24.

b) Jesús geck med fúsum vilja undir pínuna, og af elsku og medaumkun yfir oss syndurum, eptir sins himneska Fødurs rádi og vilja, þar vér annars hefdum eilífslega torthust, vegna vorra synda.

Phil. 2, 6-8. Þó ad Jesús Kristur væri í Guds mynd, sór hann samt ecki med þad eins og þad væri herfáng, ad hann var líkur Gudi, heldur lítillæckadi hann sjálfann sig, tók á sig þrælsmynd, og vard hlýdugur allt til dauda, já, allt til dauda á krossinum, Joh. 10, 11. 18. Ps. 40, 6-9.

c) Jesús

c) Jesús leid pínuna í allra syndugra manna stad, og fyrir oss alla, svo hann gæti fridþægt fyrir vor mörgu afbrot, med því ad þola þad straff, sem vèr allir höfdum tilunnid; og med hvillíkum hætti gat Gud fyrirgèfid oss syndirnar, án þess ad gjöra mótí rèttdæmi sínu, eda skèrda sitt legmál, ellegar veikja sitt Herradæmi.

Matth. 20, 28. Jesús sagdi: Mannesksjunnar sonur er ecki kominn til ad láta sèr þjóna, heldur ad hann þjóni sjálfur, og útgefi sitt líf til lausnargjalds fyrir marga, 1 Tim. 2, 5. 6. Joh. 6, 51. Róm. 5, 7. 8.

Matth. 26, 28. Deaar ad því var komid, ad Jesús gengi til daudans, sagdi hann: mitt blód úthellist fyrir marga til syndanna fyrirgefníngar, Eph. 1, 7. 1 Cor. 15, 3. Es. 53, 4 : 12. Ebr. 10, 1 : 14.

Eph 5, 2. Kristur elskadi oss, og gaf sig sjálfann út fyrir oss, til fórnfæríngar og slátrunaroffurs, svo Gudi væri þad þócknanlegt, Ebr. 10, 1 : 22. 2 Cor. 5, 15. 21.

Merk: a) Á Gamla Testamentisins tídum, vard ypparsti Prestur Gydínganna, eptir Guds skipun, á hinni stóru Fridþægíngarhátíd, ad bera offur inn í helgidóminn, til forlíkunar fyrir fólksins syndir, 3 Mos. 16, 1 : 28.; en þetta offur átti ad fyrirmynda fridþægjandi pínu og dauda Endurlausnarans, er koma skyldi, Gydíngum

 til.

til advarunar og endurminningar um það straff, er syndin hafði tilunnið, Ebr. 10, 1-4.

b) Þegar Jesús fórnfærði sjálfum sér til friðþægingar fyrir heimsins syndir, sýndi hann, að hann væri sá retti æðsti Prestur, hvörn Guð hafði tilsett, og hann frambar þá forlíkunar fórn, sem einsömul nægir til eilífvar friðþægingar fyrir alla, Ebr. 9, 11. 14.

c) Gamla Testamentisins fórnfæringar afteknst öldúngis þegar Jesús Kristur fórnfærði sjálfum sér, en öll hjátrúarfull friðþægingar meðöl, sem mennirnir höfðu sjálfir nppfundið, og sem ætíð höfðu verið kraptalaus og einkis verð, sjellu þá af sjálfum sér um koll, og urðu að engu.

d) Vier egum að leita náðar hjá Guði einúngis vegna Jesú Krists, sem allt í einu hefir fullnægju gjört fyrir alla menn, og með sínni pínu og dauða opnað öllum oss aðgáng, til að öðlast fyrirgefningu syndanna, þegar vier snúum oss af hjarta og trúum á hann, Ebr. 4, 14. 16. 7, 26. 27. 9, 24. 10, 19.

§. 8. a) Jesús Kristur tók sitt líf aptur á þriðja degi eptir sinn dauða, og uppreis úr gröfinni, eins og hann hafði sjálfur áður fyrirsagt; þar eptir var hann fjörutygi daga á jörðunni hjá vinum sínum og lærisveinum, hvörra trú hann staðfesti með kénningu og áminnsugum.

Post.

Post. Gb. 1, 3-9. Eptir ad Jesús hafdi lidid pínuna, tjedi hann siálfann sig Postulunum lifandi, med mörgum augljósum sannfæringum, og ljet þá siá sig um fjörutýgi daga, og taladi fyrir þeim um þá hluti, sem heyrdu til Guds ríki; Post. Gb. 3, 13-15. Matth. 16, 21. 17, 21. 20, 17. 27, 63.

1 Cor. 15, 3. Kristur, sem dó vegna vorra synda, eptir Ritníngunum, og var grafinn, hann er aptur risinn á þridja degi, eptir Ritníngunum, og er sjedur af. Kefa, og sídan af þeim Tólf, því næst var hann sjedur af meir enn fimhundrudum brædra í einu, af hvörjum flestir vóru á lífi, þegar Postulinn Páll skrifadi þetta, Matth. 28, 1. Marc. 16, 1. Luc. 24, 1. Joh. 20, 1. 21, 1-25.

b) Eptir ad þeir fjörutýgi dagar vóru lidnir, var sá uppprisni Jesús ecki lengur sýnilega nálægur á jördunni, heldur fór hann upp til himna, ad ásjáandi Lærisveinunum, eptir ad hann hafdi blessad þá, og gefid þeim makt og myndugleika til ad útbreida sinn lærdóm medal allra þjóda.

Luc. 24, 50. Þegar Jesús hafdi lokid tali sínu vid lærisveinana, fór hann med þá til Bethaniæ, upplypti sínum höndum og blessadi þá. En þad skedi í því hann var ad blessa þá, ad hann skildist frá þeim, og vard uppnuminn í himininn, en þeir tilbádu hann, og sneru aptur til Jerúsalem med miklum fögnudi, Matth. 28,

28, 18:20. Marc. 16, 19. Post. Gb. 1, 9:11. Eph. 4, 8.

c) Þegar Jesús var til himins farinn, settist hann til hægri handar Födurnum, hvad ed þýdir, ad hann tók til ad stjórna heiminum med sínum himneska Födur, svo ad allar skynsemdarfullar skepnur ega ad játa, ad hann sé þeirra Herra, og ega ad tilbidja hann.

Phil. 2, 9. Gud hefir hátt upphafid hann, og gefid honum þá tign, sem er yfir øllum tignum, svo ad fyrir Jesú tign skulu øll knje beygja sig þeirra, sem á himnum og á jørdu og undir jørdunni eru, og allar túngur skulu játa, ad Jesús Kristur se Drottinn, Gudi Födur til æru, Eph. 1, 20.

d) Einkum er Jesús Kristur, ad því leiti, sem hann er Endurlausnari, síns Safnadar andlegur Kóngur og Drottinn, þared hann ber umhyggju fyrir, ad ætíd séu þeir á jørdunni, sem játi hans dýrd, og ad vantrúin ecki géti med vjelum eda ofriki eydt þeim; hann hagar því líka svo, ad hans lærdómur útbreidist medal manneskjanna, þar sem hann sier ad hann fær framgáng til sannrar nytsemi.

Joh. 18, 36. 37. Jesús játadi fyrir Pilatusi: mitt Riki er ecki af þessum heimi, og samt er

eg

eg Kóngur, en þar til er eg fæddur, og þar til er eg í heiminn kominn, að eg skuli bera vitni um sannleikann. Hvørr sem elskar sannleikann, sá heyrir mína rødd, Lúc. 1, 31. 2, 11. 2 Sam. 7, 12. Ps. 45, 7. 110, 1. Es. 53, 11.

Post. Gb. 5, 31. Guð hefir upphafið hann til sinnar hægri handar, til þess hañ se Leiðtogi og Lausnari, að veita Israel apturhvarf og syndanna fyrirgefníngu, Matth. 16, 17.

e) Jesús er vor Talsmaður hjá sínum himneska Føður, og biður fyrir oss, að sín endurlausn megi koma oss til gagns og nota, svo vjer ecki fyrirserumst vegna vorra synda, heldur fáum náð til apturhvarfs, trúar og helgunar, og gétum ødlast þá sáluhjálp, sem hann útvegaði oss.

1 Joh. 2, 1 2. Vjer høfum Talsmann hjá Føðurnum, Jesú Krist þann rettláta, hvørr að er forlíkun fyrir vorar syndir, þó ecki eínúngis fyrir vorar, heldur og líka fyrir allrar veraldarinnar syndir.

Ebr. 7, 25. Hann getur gjørt þá ætíð sáluhólpna, sem hann ljet koma til Guðs, því hañ lifir æfinlega, til að biðja fyrir þeim, Róm. 8, 34.

Merk: a) Með sinni upprisu og himnaför hefir Jesús sannað, svo eckert verður á móti haft, að hann er sendur af Guði, og er í sannleika Guðs Sonur, eins og hann sagðist vera, Matth. 12, 38. Róm. 1, 4.

b) Pared Jesús er uppriſinn frá dauðum, og uppſtiginn til himna, hvarum vjer nú meſtu fullviſſu um, að Guð hefir álitið hans friðþægingu fullgylda, heiminum til endurlauſnar, líka og, að eptir þetta muni koma betra líf, og að vorir líkamir munu ecki æfinlega verða að engu, heldur þegar þar að kemur, upprísa úr duptinu til óforgengilegs lífs, Róm: 4, 25. 1 Cor. 15, 12.

c) Ef vjer viljum hafa huggun af því, að vjer vitum, að Jesús Kriſtur er vor andlegur Kóngur og Herra; þá eigum vjer eins og hollir og dyggir þegnar, að heiðra og elſka hann, og [illegible]a hlýða hans boðum; því þeir ſem ódruviſi líſa, mega álítaſt eins og upphlaupsmenn í hans Ríki, og vænta þeſſ, að óhlýðni þeirra verdur ſtraffnð eptir maklegleikum, Matth. 7, 21.

Lærdómurinn um Jesú Kriſt og hans friðþægingu, er i ſtuttu máli útſkírdur í annari grein Trúarjátningarinnar í Frædunum.

---

## Fimti Kapítuli.
## Um Apturhvarf og Trú.

§. 1. Jesús Kriſtur hefir ecki með ſinni endurlauſn gefið oſs leyfi til að ſyndv-

syndga, miklu heldur hefir hann því fremur skuldbundið oss til að fordast það illa, og kappkosta af fremsta megni, að láta oss framfara í góðu.

Tit. 2, 11-14, 15. Guds náð, sem öllum mönnum er heilsusamleg, hefir birtst, og kennir oss að afneita ógudlegu athæfi, og veraldlegum girndum, en lifa sparlega, rettvíslega og gudrækilega í heimi þessum, þar vjer lifum í von um sælu og dýrdlega auglýsingu hins mikla Guds, og vors Endurlausnara Jesú Krists, sem sjálfann sig gaf í daudann fyrir oss, til þess hann endurleysti oss frá öllu ránglæti, og hreinsaði oss, svo vjer sjeum hans ágætt fólk, kostgæfið til góðra verka. Gal. 2, 17. 2 Cor 5, 14. 15.

Merk: Hvörr sem rettilega þeckir Jesú Krists endurlausn, sá uppörfast þaraf til þess meiri vidbjóðs á syndinni; því þegar vjer athugum hvörr Jesús Kristur var, og hvað mikið hann vard að líða vegna vorra synda, þá er eins og ásmálað se fyrir vorum augum hvörsu andstyggileg syndin se, og sú tíð muni koma, að vjer verdum fyrir þúngu straffi, ef vjer höldum áfram, og hættum ecki að syndga, þó vjer vitum betur.

§. 2. Sérhvörr, sem vegna Krists girnist að fá adgáng til Guds nádar og eilífa sáluhjálp, á með sjálfu opturhvarfi

að

ad læra af syndunum, og med einlægri trú medtaka Jesú Krist Guds Son, fyrir sinn Endurlausnara, sinn Lærimeistara og sinn Drottinn.

Luc. 24, 47. Kristur skipadi: ad í sinn umbodi skyldi predikast öllu fólki apturhvarf og syndanna fyrirgefning; Post. Gb. 20, 21.

Joh. 3, 36. Hvörr sem trúir á Soninn, hefir eilíst líf, en hvörr sem ecki trúir á Soninn, skal ecki sjá lífid, því Guds reidi blífur yfir honum, Post. Gb. 10, 43. Ebr. 5, 9.

Merk: Sannarlegt ángur og tregi fyrir syndirnar, verdur ad gánga á undan, þegar trúin á Krist á ad vera fölskalaus. Því getur heldur enginn huggad sig med Jesú Krists fridkaupingu, nema sá sem lætur af illu, og kappkostar ad fara dagvaxandi í því góda. Post. Gb. 2, 37. 3, 17.

§. 3. Til sannarlegs apturhvarfs útheimtist, ad vér med einlægri ydrun kénnumst vid vorar ávyrdíngar, bidjum Gud audmjúklega fyrirgéfníngar á þeim og alvarlega einsetjum oss framvegis ad betra meir og meir vort líferni.

2 Cor. 7, 10. Sú hrigd, sem er eptir Gudi, verkar apturhvarf til sáluhjálpar, hvörs engann ydrar, Luc. 15, 21. 18, 13.

Post. Gb. 3, 19. Takid því sinnaskipti og snúist, svo ydar syndir verdi afmádar, Ps. 51, 3.

Merk:

Merk: a) Manneskjan er optast fúsari á ad afsaka enn játa sínar ávyrdíngar, þessvegna mundi hún ecki heldur alvarlega ydrast syndanna, ef samvitskan kæmist ecki eudur og sinnum vid, af Guds orda kreptugum áminníngum, med samverkun heilags Anda; en þad stendur í sjálfra vor valdi, hvort vier eptirá viljum fara oss þvilikar advaranir í nyt, og til frekari umþenkíngar, ellegar utrýma þeim úr hjartanu, og standa þannig á móti Guds nád, hvaraf vjer æ meir og meir forherdumst.

b) Manneskian getur hast ángur af syndunum, vegna hrædslu fyrir þeirra straffi, en einkanlega egum vjer knýast til ángurs fyrir syndirnar, af blygdun vegna vors vanþacklætis vid hinn góda og gædskurika Gud, sem ecki einúngis elur oss og vidheldur af einskjærri nád, heldur og serilagi hefir látid kuungjora oss í sinu heilaga ordi, þá miklu sælu, sem Kristur hefir oss útvegad, og Paradauki ecki heimtar annad af oss, enn þad, sem angljóslega horfir til vors sauna gagns, og til ad afvenda vorri egin fortopun.

c) Þegar ángrid vegna vorra synda er svo einlægt, ad vjer af alvøru fordumst þad illa, sem vjer drógt hofum, annadhvort med þaunkum, ordum eda verkum, þá er oss eckert takmark sett, hvad lengi þad skuli vara, eda hvad mikid þad skuli vera. Gud litur einúngis eptir, hvort vort ángur se einlægt ellegar ecki.

§. 4.

§. 4. Sannarleg trú á Jesú Krist til sáluhjálpar, er innifalin í því, ad vèr høfum þad traust og huggunar athvarf til Jesú Krists vors Endurlausnara, ad þared hann, med sinni pínu og dauda, friðþægdi fyrir oss, muni Gud fyrirgéfa oss vorar syndir, svo framarlega, sem vèr ydrumst þeirra af øllu hjarta, og einsetjum oss ad syndga ecki framvegis viljandi, heldur laga vorn lifnad eptir Jesú Krists heilaga lærdómi, og hlýda honum, sem vorum rèttum Herra.

Eph. 3, 12. Vegna Jesú Krists vors Drottins, høfum vjer djørfúng og adgáng til Guds, med trausti af trúnni á hann, Jóh. 6, 40.

Rom. 8, 33. Hvørr vill ásaka Guds útvalda? Gud er sá sem rettlætir. Hvørr vill fordæma? Kristur er sá sem dáinn er, já! miklu meira, sem líka er upprisinn, situr vid Guds hægri høndi, og bidur fyrir oss.

Merk: a) Þad heyrir til trúarinnar á Jesú, ad vjer seum vissir um, ad hann er í heiminn kominn, til ad uppfræda og endurleysa syndugar manneskjur; þó er þetta ecki nóg til sannrar trúar, því sá getur líka verid sannfærdur um þetta, sem med sínu líferni afneitar honum í því, ad hlýda ecki hans bodordum, Matth. 7, 21.

b) Vjer-

b) Vjer verdum ad finna med siálfum oss hvórsu miög vjer þurfum Guds nádar vid, ef vjer viljum meta Krists endurlausn eins og verdt er; því annars væri vor trú ekkert, nema kold játning med vörunum. Þess vegna er einúngis sanna trú ad finna hjá þeim ydrandi, sem þeckja hvad andstyggileg syndin er, og hafa innilega laungun eptir Guds nád, vegna Krists, Matth. 9, 12.

c) Trúin getur verid veik, medan hugskotid finnur ecki neina upplífgandi huggun af ad tileinka sér Jesú Krists fridþægíngu, eda þá þad stundum ángrast af hrædslu og efasemi; en þvílík trú er engu ad sídur sýn og Gudi þóknanleg, þegar hún andsónir sig med sannarlegri laungun eptir Guds nád, vegna Krists, og kappkostar af fremsta megni ad gióra þad, sem Gud vill, Marc. 9, 24.

d) Sú trú er daud og ávaxtarlaus, sem ecki betrar hugarfarid, og ecki andsýnir sinn krapt í gudrækilegu liferni. Sönn og lifandi trú á ad sýna sig kroptuga og verkandi í dygdafullu liferni, Jak. 2, 14.

§. 5. a) **Vér gétum ecki af eiginn kroptum snúid oss og tráad, þared syndin hefir veikt oss, samt megum vér ecki forsóma ad leggja allt kapp á vora sálar betrun.**

Róm. 8, 7. Ad stunda þad, sem spillt náttúra vill, er fjandskapur ígegn Gudi, þar þad strídir á móti hans vilja; því hún hlýdir ecki

Guds légmáli, og gjetur heldur ecki gjört þad, 1 Cor. 4, 4.

b) Heilagur Andi er ætíd reidubúinn til ad efla vora betrun, og láta oss áfram fara í því gódu med Guds ordi, sem hann hefir sjálfur inngefid þeim heilögu Skrifurum.

1 Cor. 6, 11. Postulinn Páll ber Korinthumönnum á brýn, ad nockrir medal þeirra hafi ádur verid lastafullir, en nú, segir hann: erud þjer þvegnir, þjer erud helgadir, þjer erud rettlættir í nafni Drottins vors Jesú, og af vors Guds Anda. Phil. 2, 13. Eph. 3, 16.

Ebr. 13, 21. Fridarins Gud tilbúi ydur til allra gódra verka, til ad gjöra hans vilja, og verki þad med ydur, sem honum er sjálfum þócknanlegt fyrir Jesú Krist.

c) Af réttri brúkun Guds orda fáum vér rétta þeckingu á Guds vilja, og [illegible] til ad laga vorn lifnad eptir þeim, ef vér ecki sjálfir stendum á móti nád þess heilaga Anda, sem í hugskoti voru verkar med Guds ordi, og uppvekur í samvitskunni þær áminningar, sem vér ecki megum nidurkefja.

2 Tim. 3, 15. Þú kannt heilaga Ritningu, sem getur uppfrædt þig til sáluhjálpar med trúarlærdóminum um Jesú Krist. Öll heilög Ritning er innblásin af Gudi, og nytsamleg til

til lærdóms, til sanfæringar, til leidréttingar, til uppfrædingar í réttlætinu, svo ad Guds madur se algjörr, og til alls góds verks hæsilegur.

Merk: Til ad hafa Guds ord réttilega um hönd, útheimtist, ad vjer heyrum þad og lesum med gaumgæfni, og einlægum ásetningi til ad læra þad, oss til betrunar og sáluhjálpar. Þegar vjer ekki þannig brúkum Guds ord, fær heilags Anda nad ecfert verkad í sálunni, þared Gud, sem hefir gesid oss fullt vit og frjálsrædi, hvorki vill nje getur þríngad oss til góds med þeirri makt, sem vjer ekki getum móti stadid.

§. 6. Umvendt og rétt-trúandi kristin manneskja getur, eptir því, sem Gud hefir í sínu ordi lofad, verid sannarlega fullvís um, ad hún er hjá Gudi, vegna Krists, réttlát ordin, og ad hennar fyrri syndir ecki tilreiknast henni, heldur skuli straffid fyrir þær, vera henni eldúngis eptirgesid, þared Gud, vegna Krists, tileinkar henni, eins og hlýdnu barni og trúum þénara, aptur á mót sína náð og blessun.

Róm. 3, 24. 25. Vjer verdum rettlættir án verdskuldunar, af Guds náð, med þeirri endurlausn, sem Jesús Kristur hefir afrekad, hvörn Gud tilsetti, ad hann skyldi vera sá nádarstóll, hvar leita ætti fyrirgefníngar á syndunum,

unum, fyrir trúna á hans blód, eda á hans pínu og dauda.

2 Cor. 5, 21. Þann, sem ecki vissi af synd, hefir Gud giørt ad synd fyrir oss, eda í vorn stad látid fara med hann eins og sekann syndara, svo ad vjer hans vegna yrdum rettlátir fyrir Gudi, Rom. 8, 1.

Merk: J heilagri Ritníngu brúkast ýmislegir talshættir, til ad sýna, hvørninn til skuli gánga hiá þeirri syndugri manneskju, sem betrast á af heilags Anda nádarverkunum.

a) Ritníngin talar um Guds köllun til mannanna, sem er í því innifalin: ad hann í sínu ordi gefur þeim tilefni til ad girnast þá endurlausn, sem Kristur hefir útvegad, og þar ad auk leitast vid med ødrum hætti, svo sem med þjáníngum og velgiørníngum, ad uppvekja þá til ad þenkja um þeirra andlegt ásigkomulag, Matth. 9, 13. 11, 28. 1 Thess. 2. 12. Psalm. 119, 71. Rom. 2, 4.

b) Ritníngin talar um upplýsíngu, og vill þarmed láta skiljast, ad heilagur Andi uppfrædi vorn skilning med ordinu, svo vjer fáum sanna þeckíngu um Guds rád og vilja, er vidvíkur syndugra manna betrun og endurlausn; Eph. 1, 18. Post. Gb. 26, 17.

c) Med ordinu Endurfæding, gefur Ritníngin til kynna, þad sælusulla ástand, sem kristin manneskja kemst í, þegar hún med sannri ydrun

lætur af illu, og med rettri trú á Krist, sær lyst og laungun til góds, eda verdur ad annari og betri manneskju, því þarmed er eins og hún fædist ad nýu, þared hennar sinnislag og hugarfar snúast frá illu til góds, eptir Guds vilja, 1 Pet. 1, 3. Joh 3, 3. 2 Cor. 5, 17.

d) Þad, sem Ritníngin kallar Helgun, er trúads kristins manns dagleg framför í dygdum og gudhrædslu, sem eblist af samverkandi nád heilags Anda, med ydugleg(r)i brúkun Guds orda, bæn og árvekni, 1 Thess. 5, 23. 2 Cor. 7, 1. Rom. 12, 1.

Þridja Grein Trúarjátníngarinnar í Frædunum, sýnir í stuttu máli, hvørninn heilagur Andi leidir manneskjuna, med sínum nádarverkunum og ordinu, til sannarlegs apturhvarfs, og ávaxtarsamrar trúar á Jesú Krist. En í annari Bæninni í Frædunum uppørfumst vjer til ad bidja um adstod heilags Anda, svo vjer getum ordid sannir kristnir, er sýni sig verduga ad vera þegnar í Krists Nádarriki; og í þridju Bæninni verdum vjer minntir á þá hlýdni, sem vjer erum Gudi um skyldugir, til ad ad audsýna med henni vora trú.

# Sjötti Kapituli.
## Um Trúarinnar Averti í heilögu Líferni.

§. 1. Þarf á ad sjást, hvört vor trú á Krist sé sönn og lifandi, ad hún verkar í hjartanu hatur til allra synda, og þarámót kröptuga eptirlaungun til ad breyta eptir Guds vilja í öllum hlutum, til ad þócknast honum.

Jak. 2, 18. 26. Sýn mjer trú þína af verkum þínum, því eins og líkaminn er án andar daudur, svo er líka trúin daud, þegar hún er án verkanna.

Rom. 12, 9. Hafid andstygd á því sem vondt er, en haldid ydur fast vid hid góda, Post. g. 15, 9.

Merk: a) Vjer getum ecki forþenad Guds nád og eilífa sáluhjálp, þar vor bestu verk eru ófullkomin, og Gud er sjálfur sá, sem gefur kraptana til ad framqvæma þau, Luk. 17, 10.

b) Þad lítid gott, sem vjer gjörum hjer á jördunni med störum vanmætti og breiskleika, gietur ecki komid í samlíkingu vid þá ómetanlegu gledi, hvörrar þeir gudhræddu mega vænta í enn betra lífi. Þessvegna vill Gud einnig, ecki vegna verka vorra, heldur af

af náð sinni, giöra oss sáluhólpna, vegna vorrar trúar á Jesú Krist, Róm. 6, 23. Eph. 2, 8. 9.

c) Það er öldúngis naudsynlegt, vjer breytum eptir Guðs vilja, þótt vjer ecki þarmeð egum skilið að fá hans náð, til þess að trúin sýni sinn krapt í góðum verkum, því annars getum vjer ecki orðið hæfilegir til að taka á móti þeirri sáluhjálp, sem Kristur hefir útvegað oss, Jak. 2, 14. Róm. 2, 7. 10.

§. 2. Sérhvað það, sem Guð hefir boðið oss að taka vara á, er vor skylda. Í lögmálinu, sem út var gefið á fjallinu Sínaí, eru þau almennilegu skylduverk í stuttu máli fyrirskrifuð, og innifalin í þeim tíu boðorðum, sem Guð bauð Móses að rita á tvær steintöblur.

2 Mós. 20, 1-17. Guð talaði öll þessi orð, og sagði:

I. Þú átt ecki að hafa annarlega Guði fyrir mjer.
II. Þú átt ecki að leggja nafn Drottins Guðs þíns við hjegóma, því Drottinn mun ecki láta þann vera óhegndann sem misbrúkar hans nafn.
III. Minnstu að halda hvíldardaginn heilagann.
IV. Heiðra Föður þinn og Móður þína, svo þú lifir lengi í landinu.
V. Þú átt ecki að slá í hel.
VI. Þú átt ecki að drýgja hórdóm.

VII. Þú átt ecki ad ſtela.
VIII. Þú átt ecki ad bera falſkann vitnisburd móti þinum náúnga.
IX. Þú átt ecki ad girnaſt hús þins náúnga.
X. Þú átt ecki ad girnaſt þins náúnga ektaqvinnu, ellegar hans þjón, ellegar hans þjónuſtuqvinnu, ellegar hans uxa, ellegar aſna, ellegar nockud, ſem heyrir þinum náúnga til.

Merk: Guds løgmál, ſem er innifalid í þeim tíu bodordum, er ad ſonnu einkanlega fyrirſkrifad Gydíngum, en þad inniheldur ſamt þau ſkylduverk, ſem ſerhvør manneſkja á ætid ad gefa gætur ad, því þau þjéna til ad efla bædi vort egid og annara ſanna gagn, Róm. 3, 31. 13, 8. 9.

§. 3 Sö er tilgángur allra Guds bodorda, eptir Kriſts egin útleggíngu, ad efla og ſtadfeſta hjá manneſkjunum framqvæmdarſama elſku til Guds, ſjálfra þeirra og náúngans.

Matth. 22, 37-40. Jeſús ſagdi: Þú átt ad elſka Dróttinn Gud þinn af øllu hjarta, allri þinni Sálu, og øllu þinu Hugſkoti. Þad er hid fyrſta og ſtærſta bodord; en hitt annad er þeſſu líkt: þú átt ad elſka náúnga þinn eins og ſjálfan þig. Í þeſſum tveimur bodordum er innifalid allt løgmálid og Spámennirnir, Róm. 13, 10.

Merk;

Merk: Það er ecki nóg, að vjer einúngis eptir vorn náttúrufari gjörum eitt eða annað gott, sem kann að vera oss geðfellt; ecki heldur er það sannarlegt góðverk, þó vjer gjörum gott einúngis til að fá hrós hjá mönnum, eða af ótta fyrir straffi og saksóknum, ef það væri ógjert látið. Oss byrjar í öllu, sem vjer gjörum, hafa þann tilgáng, að auðsýna kjærleikann, Gal. 5, 6. 1 Joh 3, 23.

## A.) Um Skylduna við Guð.

Vér egum að dýrka Guð, eins og vorn Skapara, Yfirherra, stærsta Velgjörara og elskuríkasta Föður, bæði innvortis í sálunni, með vorum þanckum og girndum, og líka útvortis, með orðum og athöfnum.

1 Cor. 6, 20. Þjer eruð dýru verði keyptir; vegsamið þessvegna Guð með yðar líkama, og með yðar öndu, sem Guð á, Mal. 1, 6.

Merk; Vjer egum einkælega að dýrka Guð, svo vjer ecki einúngis biðjum hann, lofum hann og þöckum honum með orðunum, eða auðsýnum honum útvortis lotníngu; heldur byrjar oss líka einkum að auðmýkja oss fyrir honum í hjartanu, óttast hann og elska, líka sýna lyst og laungun í öllu voru framferði, til að breyta eptir hans vilja; því annars verður vor Guðsdýrkan að hræsni, sem fyrir

Þeim alvísa og heilaga Guði er mesta andstygð, 1 Sam. 15, 22. Es. 1, 11. Matth. 6, 1. 23, 13. Marc. 7, 1.

## 1.) Innvortis Guðsdýrkunin.

§. 1. a) Vér egum að tilbiðja Guð einann, því hann er vor Skapari, og sá einasti sanni Guð.

Matth. 4, 10. Jesús sagði: Drottinn Guð þinn áttu að tilbiðja, og dýrka hann einann, Ps. 99, 5.

b) Hver, sem réttilega tilbiður Guð, á með auðmjúkri lotningu viðurkénna hans allrastærstu fullkomlegleika, halda hann fyrir hið hærsta góða, og líka við sérhvert tækifæri auðsýna í verkunum, að hann verðir Guð yfir ölla hluti fram.

Ps. 99, 5. Upphefjið Drottinn vorn Guð, og tilbiðjið fyrir hans fótskør, því hañ er heilagur.

§ 2. a) Vér egum að óttast Guð, því hann er heilagur og réttlátur.

Pred. 12, 13. Óttast þú Guð og hald þú hans boðorð, því það ber øllum mønnum að gjøra, Post. Gb. 10, 35.

b) Guðhræðslan á að sýna sig í því, að vér tøkum oss umhyggjusamlegann vara fyrir øllu því, sem vér høldum Guði sé á móti.

Orðsq.

Ordsq. 16, 6. Af ótta fyrir Drottni fordast menn hid illa.

c) Vér megum ecki óttast Gud eins og óviljugir þrælar, af qvída fyrir straffinu, heldur eins og hlydin børn, þvi hann er svo gódur og gædskuríkur Fadir.

Rom. 8, 15. Þjer hafid ecki medtekid þrældóms lunderni, ad þjer þyrftud aptur ad verda hræddir, heldur hafid þjer fengid óskabarna hugarfar, af hvørju vjer køllum: Abba! elskulegi Fadir! 1 Mos b. 39, 9.

§. 3. a) Vér egum ad elska Gud yfir alla hluti fram, þvi hann er vor stærsti Velgjørari, og af Kristi fridþægdur Fadir.

1 Joh. 4, 19. Látum oss elska hann, þvi hañ elskadi oss ad fyrra bragdi, 1 Joh. 5, 1.

b) Elskan til Guds útheimtir, ad huguriñ innilega glediji sig af honum, og finni hjá sér stærstu lángun eptir ad þócknast honum, med þvi ad breyta eptir hans vilja.

1 Joh. 5, 3. J þvi er elskan til Guds innifalin, ad vjer höldum hans bodórd, en hans bodord eru ecki þúng, Ps. 18, 2

§. 4. a) Vér egum ad hlyda Gudi, þvi hann er ecki einúngis vor æzti, heldur og líka sá vísasti og besti Yfirherra.

Jer. 11, 4: Drottinn sagdi; hlydid mjer, og gjørid allt, sem eg hefi bodid ydur, þá skulud

þjer

þjer vera mitt fólk, og eg, eg skal vera ydar Gud, Post. Gb. 5, 29.

b) Ol! dnin vid Gud er í því innifalin, ad vèr ætid med fúsum vilja leggjum allt kapp á, ad laga vort sinnislag og framferdi eptir Guds vilja, til ad þóknast honum, og alvarlega taka oss vara fyrir því, ad brjóta hans bodord af ásetníngi. Ps. 143, 10. Drottinn! kjenn þú mjer ad gjöra Það, sem þú vilt, því ad þú ert minn Gud, 1 Pet. 1, 14

§. 5 a) Vèr egum ad reida oss uppá Gud, því hann bædi vill og gétur gèfid oss tímanlega, andlega og eilífa velferd.

1 Pet. 5, 7. Kástid allri ydár áhyggju uppá Drottinn, því honum er annt um ydur, Ps. 55, 23.

b) Ad reida sig uppá Gud er sama sem ad treysta honum, og er innifalid í því, ad vèr seum fullkomlega sannfærdir um, ad Gud, vegna Jesú Krists, vilji gjöra oss hluttakandi í öllu því góda, sem hann hefir lofad oss í sínu ordi, líka ad hann, eptir sinni alvísu rádstefun, vilji veita oss sína hjálp med besta móti, og á hogqvæmasta tíma.

Ps. 146, 5. 6. Sæll er sá, hvörs hjálp Jakobs Gud er, sá sem hefir stadfasta von til Drottins síns Guds, sem gjördi himininn og jörd-

jördina og sjóinn og allt þad, sem er í þeim; til hans, sem heldur trygd æfinlega, Harmag. 3, 25. Rom. 8, 32.

§. 6. Vér megum ecki tilbidja neitt annad í stadinn fyrir sannann Gud, hvorki engla, né helga menn, né sól né túngl, né stiörnur, ellegar neitt annad þvílíkt, og ecki heldur reida oss uppá þad, í stadinn fyrir ad setja vort tiltrúnadar traust til þess sanna Guds, því hann er einúngis vor Drottinn og Skapari; annars syndgum vér á móti fyrsta bodordinu, og gjörum oss seka í afgudadýrkun.

2 Mos. b. 20, 3. 4. Drottinn sagdi: þú átt ecki ad hafa annarlega Gudi fyrir mjer. Þú mátt ecki smída þjer neina útHöggna eda annarslags mynd, eptir því sem er á himninum uppi, ellegar á jördunni nidri, ellegar í vötnunum undir jördunni, þú átt ecki ad tilbidja eda dýrka þad, Es 42, 8. Post. Gb 17, 29.

§ 7. Vér megum ecki elska sjálfa oss, ellegar neitt annad meir enn Gud eda í stad Guds, ecki heldur megum vér treysta uppá sjálfa oss, adra menn, ellegar adra hluti, meir enn uppá Gud, vegna þess hann einn er vor almáttugi og stærsti Velgjörari.

Jer. 17, 5. Svo ſagdi Drottinn: Bölvadur veri ſá madur, ſem treyſtir uppá manneſkjuna, og hefir holdid fyrir ſinn arm, ellegar heldur ad ſer ſe óhætt med vanmáttugrar manneſkju varatekt, og hvørs hjarta víkur frá Drottni.

Ordſq. 3, 5. Treyſtu Drottni af øllu þínu hjarta, en reiddu þig ecki faſt á þitt hyggjuvit.

§. 8. Vér egum daglega ad ſtrída á móti þeim ſyndſamlegu girndum, ſem Gudi eru á móti, og aldrei brjóta hans bodord af ótta fyrir mønnum, eda elſku til þeirra, þvi hann er ſá heilagur Gud, hvørn vér egum ad óttaſt, og líka ſá gódur og vísdómsfullur Drottinn, ſem vér egum ad elſka og hlýda framyfir alla hluti.

1 Joh. 2, 15-17. Elſkid ecki verøldina, og ecki heldur þá hluti, ſem í henni eru; ef nockurr elſkar verøldina, þá er elſka til Fødurins ecki í honum, þvi allt þad ſem í verøldinni er, ſem er lyſt holdsins, ſjón augnanna og dramblátt líferni, þad er ecki af Fødurnum, heldur af verøldinni. Verøldin forgengur og hennar lyſtingar, en ſá, ſem gjørir eptir Guds vilja, blífur ad eilífu.

Ordſq. 1, 10. Son minn! Þegar illir ſkálkar locka þig, þá ſylg þeim ecki.

§. 9. Vér egum ad audſýna vorum náúnga einlæga elſku, til merkis um, ad vér af hjartans yfirdrepſkapar elſkum Gud, ſem vill

vill ad kjærleikurinn sé eins ríkur hjá oss, eins og hann er hjá sjálfum honum; þarfadauki egum vèr ad leggja kapp á, ad breyta eptir Guds vilja í ǫllum hlutum.

1 Joh. 4, 21. Þetta bodord hǫfum vjer af honum, ad hver sem elskar Gud, hañ á líka ad elska sinn brodur, 1 Joh. 3, 17. 4, 7.

1 Joh 2, 5. Hvørr sem hans ord vardveitir, í honum er sannarlega elskan til Guds fullkomin, Joh. 15, 14.

Merk: Þau Skylduverk, sem vidvíkja innvortis Gudsdýrkun, eru í stuttu máli innfalin í Luthers útleggingu yfir fyrsta Bodordid í Frædunum.

## 2.) Útvortis Gudsdýrkunin.

§. 1. a) Vèr egum ad lofa og vegsama Gud, því hann er sá fullkomnasta og ædsta Vera.

Ps. 72, 18, 19. Lofadur veri Drottinn Gud Israels Gud, hann sá einn gjörir dásemdarverkin, og blessud se hans dýrdarfulla hátignadeilífu, og ǫll lǫnd uppfyllist med hans dýrkun.

b) Gud lofast og vegsamast, þegar vèr annadhvert med bænum, sálmum eda samtali vid adra, hrósum Guds ypparlegu eginlegleikum og miklu dásemd-

 ar,

arverkum, af flärku hugarþeli, sem fullt er af heilagri lotuíngu fyrir honum.

Ps. 145, 3. 4. Mikill er Drottinn og mjøg loflegur; hans makt er órannsakanleg. Serhvør kynslód mun fyrir annari hrósa þínum verkum, Drottinn! og kunngjøra þitt veldi.

§. 2. a) Vèr egum ad þacka Gudi, því hann veitir oss svo mikla velgjørníuga, og audsýnir oss svo mikla nád vegna Jesú Krists.

Eph 5, 20. Þackid ætíd Gudi Fødur fyrir alla hluti, í nafni vors Drottins Jesú Krists, 1 Thess. 5, 18.

b) Ef vèr egum ad géta þackad Gudi rèttilega, þá ber oss ad kannast vid og audmjúklega játa, ad Guds mikla miskunsemi vid oss, er lángtum meiri, enn vèr høfum tilunnid, og þaradauki egum vèr ad færa oss hans velgjørnínga rèttilega í nyt, eins og hann hefir tilætlad.

Ps. 118, 1. Þackid þjer Drottni, því hann er gódur, og hans miskunsemi varir eilíflega, Ps 105, 1.

§. 3. a) Vèr egum ad bidja Gud og ákalla hann, því hann einn rædur fyrir vorri tímanlegri og eilífri velferd, þar Kristur, vor Talsmadur, hefir einnig opnad oss adgáng til hans, svo sem vors gædskurika og elskufulla Fødurs.

Luc.

Lúc. 11, 9. Jesús sagdi: bidjid, þá mun ydur gefast; leitid, þá munud þjer finna; knýid á, og mun fyrir ydur uppłokid verda, Ps. 50, 15. 145, 18. 19.

b) Þad heitir bæn og ákallan, þeg-ar vèr frambernm fyrir Gud, annad-hvørt í huganum eda med munninum, vora laungun eptir einhverju gódu, sem oss er lofad í hans ordi, og sem vyrdist naud-synlegt til vorrar egin eda annara velferdar.

1 Joh. 5, 14. Þessi er sú djørfúng, sem vjer høfum til hans, ad ef vjer bidjum um nockud eptir hans vilja, þá heyrir hann oss.

§. 4. Þared Sunnudagurinn er til-skickadur til opinberrar Gudsdyrkunar, þá á sèrhvørr kristinn madur ed fara til kirkju, sèr og ødrum til uppbyggingar af Guds orda heyrn og lestri, líka uppbygging-ar af því, ad lofa Gud og þacka honum sam-eginlega med ødrum sínum samkristnum, svo þeir innbyrdis stadfestist í dygd og gud-hrædslu, og frá því á eckert ad hindra oss, nema sjúkdómar, eda onnur þvílík for-føll, sem ecki verdur hjá komist.

2 Mós. b. 20, 8. Drottinn sagdi: minnstu ad halda helgann hvíldardaginn, Lúc. 11, 28.

Col. 3, 16. Látid Krists ord búa ríkuglega medal ydar, svo þjer kjennid og áminnid ydur

sjálfa innbyrdis med allskonar vísdómi, og syngid fagra sálma, loffaunga og andleg qvædi fyrir Drottni í ydar hjørtum, Ebr. 10, 25.

§. 5. a) Vér meguni hvørki brúka Guds nafn gálauslega né athugalaust, allra síst vanheidra þad med nockurslags misbrúkun; mikiu heldur erum vér skyldugir til ad lofa og vegsama Gud.

2 Mos. b. 20, 7. Drottinn sagdi: Þú átt ecki ad leggja nafn Drottins Guds þíns vid hjegóma, því Drottinn mun ecki láta þann óhegndann, sem misbrúkar hans nafn.

b) Guds nafn vanheidrast med ad formæla, þegar vér annadhvert í Guds eda Krists nafni óskum ills sjálfum oss eda ødrum. Hvílíkar formælingar géta og skéd med mørgu ødru móti, sem auglýsir alleins blygdunarlaust sinnislag, er ecki sýnist neins í Guds allraheilegustu nálægd, né gefur gaum [illegible] hvørsu mjøg hvør ein manneskja á ad elska sjálfa sig og náúngann.

Jak. 3, 10. Af sama munni framgengur bædi blessan og bølvan. Brædur mínir! þetta má ecki svo tilgánga, Róm. 12, 14.

c) Guds nafn vanheidrast med ad sverja, þegar einhvørr í daglegu tali gálauslega vitnar til Guds eda Krists, til ad stadfesta þar med ord sín.

Matth.

Matth. 5, 34. 37. Þier skulud, ølldúngis ecki sverja, en ydar ræda skal vera já, þegar játa skal, og nej, þegar neita á, því hvad sem þar er framyfir, er vondt.

§. 6. a) Þegar vér egum opinberlega ad sverja, megum vér ecki gleyma því, ad sá alv'ſi Gud, hvern vér køllum til vitnis, er bædi réttlátur og heilagur Gud, sem hatar allt óhreinlyndi, og ad hañ mun hardlega straffa þá, sem sverja ránglega; því þeir vanbrúka hans nafn til ad hylja med íllsku og ránglindi.

2 Mos. b. 20, 16. Drottiñ sagdi: Þú átt ecki ad bera falskañ vitnisburd á móti þinum náúnga.

Zach. 5, 4. Eg ljet bølvun útfara, segir Drottinn Zebaoth, svo hún komi yfir þjófsins hús, og þess, sem sver ránglega vid mitt nafn, Mal. 3, 5.

b) Menn sverja eid, eptir Yfirvaldsins skipun, stundum til stadfestingar uppá ad vér skulum eckert segja eda vitna, annad enn þad, sem vér vitum fyrir víst ad satt er, og stundum til fullvissu um, ad vér viljum trúlega lifa eptir því, sem oss er fyrirsett, og vér høfum undirgengist.

Ebr. 6, 16. Manneskjurnar sverja vid þann, sem er ædri enn þeir sjálfir, og sá eidur gjørir enda á allri þrætu til ad fá fullvissu, 5 Mos. b. 6, 13.

c) Hvørr, sem fremur meinsæri, eda sver rånglega, kann ad álitast ecki einúngis eins og blygdunarlaus gudlastari, vegna þess, hann manar hins alvísa Guds réttlæti móti sér, heldur og líka eins og fjandmadur síns samkristinna, hvorra velferd og æru hann opt spillir, svo sá saklausi verdur fyrir hallanum, en hinn seki sleppur óhegndur, og fær aptur tækifæri til, ad koma meiru íllu af stad.

1 Tim. 1, 10. Postulinn Páll leggur meinsæris mañ ad jøfnu vid mordíngja og verstu íllvirkja.

§. 7. Vér megum ecki fara med galdur, sem er hjátrúar- og heimsku-full vanbrúkan á Guds nafni eda Guds ordi, til ad fremja kukl eda særa, ellegar til annara þvílíkra heimskulegra fyrirtekta, af rángri ímyndun um, ad menn med þessu gæti lækrad manneskjur eda fjenad, sýnt hvørr stolid hafi, varnad tjóni og ólucku, eda annad þvílíkt.

5 Mos. b. 18, 10-12. Enginn á ad finnast hjá þjer, sem fer med spádóma, eda er dagveljari, ellegar tekur mark á fuglaqvaki, ellegar fremur kukl, eda særinga-mádur, ellegar fer til spásagnarmanna, ellegar útþýdir fyrirburdi, ellegar leitar fretta af framlidnum, því hvørr sem þvílíkt gjørir, er andstyggilegur fyrir Drottni.

§. 8.

§. 8. a) Vér megum ecki vanhelga hvíldardagiñ med ónaudsynlegri viñu, því þann dag egum vér sérílagi, eptir Guds bodi, ad halda heilagann, med andakt og gudrækilegum umþenkingum,

Ps. 95, 1. 2. Komid látum oss med gladværd lofssýngja Drottni, látum oss af fögnudi hatt lofssýngja vorum voldnga Frelsara; látum oss koma fyrir hans ásjónu med þackargjörd!

b) Had er sannhjarnlegt og Guds vilja samqvæmt, ad Sunnudagurinn se mönnum og sképnum til hvíldar og endurnlífgunar eptir vinnu þeirra. N. sögegna kallast líka þessi dagur, sem kristnir menn halda heilagann, Krists upprisu minníngu, ennþá hvíldardagur.

2 Mos. b 23. 12. Sex daga skaltu verk þitt vinna, en sjöunda daginn áttu ad hafa fyrir hvíldardag, svo ad þinn uxi og þinn asni geti fengid hvíld, og þinnar ambáttar sonur, og sá framandi geti endurnært sig, 2 Mos. b. 20, 8.

Merk: Skylduverkin, sem víkja ad utvortis Gudsdýrkun, eru stuttlega útmálud í ödru og þridja bodordi Frædanna.

## B) Um Skylduna vid sjálfa oss.

Vér egum ad elska sjálfa oss, og einkanlega láta oss vera annt um vorrar

sálar-

sékar velferd, líka egum vér ad stunda eptir sannarlegu gagni líkama vors, sem og ad efla med med leyfilegum hætti vora tímanlega velferd, eins og samqvæmt er Guds ordi og vilja.

Matth. 6, 33. Jesús sagdi: leitid fyrst Guds ríkis, og þess réttlætis, sem fyrir honum er þocknanlegt, þá munud þjer fá í vidbót allt, sem þjer meðþurfid.

Merk: Manneskjan elskar sig ecki sjálfa rettilega, þegar hún sækist einungis eptir ad sedja sínar jardneskar girndir, án þess ad hirda um sína sáluhjálp, 'eda gefa gætur ad því, sem hún er bædi Gudi og ödrum mönnum skyldug um.

## 1.) Umhyggja fyrir Sálunni.

§. 1. Vér egum ad láta oss vera umhugad um, ad vor skynsemi upplýsist meir og meir, med nytsamlegri þeckingu, sérdeilis um Guds vilja og hans rád til vorrar sáluhjálpar.

2 Pet. 3, 18. Vaxid í vors Drottins og Endurlausnara Jesú Krists nád og þeckingu, Ordsq. 2, 10. 1 Cor. 14, 20.

§. 2. Vér megum ecki láta vorn vilja stjórnast af neinum vondum tilhneigingum, heldur egum vér af fremsta megni kapp-

kappkosta ad laga þær eptir því, sem vorri skynsemi nyrdist ad vera rett og tilheyrilegt, eptir Guds orda regla,

Ordsqv. b. 16, 32. Sá sem stjórnar gedi sínu, er betri eñ sá, sem yfirvinnur borgir, Gal. 5, 24.

§. 3. Vér megum ecki afs ka vorar ávyrdingar, heldur keppast eptir, eins og Gud hefir látid Krist kenna oss, ad sjá æ meir og meir vid þeim, og afleggja þær.

2 Cor. 7, 1. Med því vjer hösum þvílikt fyrirheit, mínir elskanlegir! þá látum oss hreinsa oss af allri saurgun holdsins og andans, og höldum áfram í helguninni, med gudhræðslu, 1 Joh. 1, 6.

§. 4. Vér egum med gaumgæfni ad vaka yfir samvitsku vorri, svo vér ecki vísvitandi ofþyngjum hana med neinni synd.

Post. Gb. 24, 16. Postulinn Páll sagdi: eg, æfi sjálfann mig í, ad hafa jafnan óskjerta samvitsku fyrir Gudi og mönnum.

§. 5. Vér egum opt ad þenkja uum daudann, sem skjótt getur ad óverum yfirfallid oss, þó svo, ad vér hverki skelfumst ef honum, ellegar lifum med sorg og óroseml, heldur á þad ad kéna til þess, ad vér því betur undirbúum oss í sennum Guds ótta til sáluhjálplegrar burtfarar.

2 Cor.

2 Cor. 5, 8. 9. Vjer erum hughreustir, og höfum miklu meiri lyst til ad vera fjarlægir frá líkamanum, og heima hjá Drottni. Þessvegna kappkostum vjer líka, hvört sem vjer erum heima eda fjærverandi, ad vera honum þócknanlegir, Ps. 90, 12. Phil. 1, 23.

## 2.) Umhyggja fyrir Líkamanum.

§. 1. Vér megum hvorki med ásetníngi taka sjelfir af oss lífid, sem er sú ypparsta gáfa, er Gud hefir gefid oss, né viljandi skada vora limu eda heilsu, því þar med reynum vér til, med heimskulegri ofdyrfsku, ad taka rádin af Gudi, sem alleinn hefir vald yfir lífi og líkama manneskjunnar, en sviptum náúngann þeirri adstod, sem hann med rétti mátti af oss heimta; þaradauki breytum vér svo grimdarlega vid sjálfa oss, ad ecki finnast dæmi til þvilíks á medal ómulstu villudýra.

Rom. 14, 7. 8. Enginn af oss hefir rád á ad lifa eda deyja eptir vild sinni, því hvört sem vjer lifum, þá erum vjer á Drottins valdi, ellegar deyum, þá erum vjer eins í Drottins valdi, þad er ad skilja: hvört sem vjer lifum ellegar deyum, þá á Drottinn ráð yfir oss, 1 Cor. 6, 19. 1 Sam. 31, 4. 2 Sam. 17, 23. Matth. 27, 5.

§. 2.

§. 2. Vêr egum ad fordast allt óhóf í mat og dryck, sem einúngis spillir heilsunni og eydir vorri formegun, en gjörir-oss óhæfilega bædi til ad lofa Gud, og líka til ad vinna þad. sem oss ber ad gjöra.

Luc. 21, 24. Jesús sagdi: Varid ydur sjálfa, ad ydar hugskot aldrei ofþýngist af ofáti eda ofdryckju, Róm. 13, 13

Gal. 5, 21. Ofdryckja og ofát teliast med þeim hlutum, um hverja Postulinn Páll segir: ad þeir sem þvílíkt gjöri, muni ecki ödlast Guds ríki, Ordsqv. 23, 20.

§. 3 Vêr egum ad halda oss frá hórsdómi og allskyns lauslæti, bædi iñvortis í þaunkunum, og útvortis med verkinu; því þar af spillist líkaminn, og sálin saurgast, svo hún verdur óhæfileg til ad hugsa um nockud gott, og mißir alla laungun eptir dygd og Guds ótta, en audsjáanleg því frekar sínar saurugu girndir í ordum og vidmóti ödrum til hneixlis.

2 Mos b. 20, 14. Drottinn sagdi: þú átt ecki ad drýgja hór, Matth. 5, 27.

1 Thess. 4, 3'5. Sá er vilji Guds, ad þjer helgist og umflýid hóranir, svo ad hvörr og einn stundi ad halda sínum líkama í hreinlífi og sóma, en ecki girndarbruna, eins og heidíngjarnir, sem ecki þeckja Gud.

Eph. 5, 3-5. Eptir sem heilögum hæfir, á hvorki frillulífi nje nockurskonar óhreinleiki edr agirni, svo mikid sem nefnast medal ydar, nje blygdunarleysi, nje fíflslegt hjal eda gárúngahattur, hvad ecki er sómasamlegt, heldur miklu fremur þackargjörd; því þad vitid þjer, ad enginn frillulífismadur, eda óhreinn, eda agjarn, hverr ad er skúrdgodadýrkari, hefir hlutskipti í Krists og Guds ríki, 1 Cor. 6, 15.

Merk: Í Frædunum er vid sjetta bodordid stutt útskíring um kristilegt skírlífi, og í sjöttu bæninni finnst upporfan til ad bidja Gud um nád og styrk, ad standa á móti þeim freistingunum, sem í þeim efnum kynnu mæta oss.

## 3.) Umhyggja fyrir vorri tímanlegir Velferd.

§. 1. a) Vjer egum kappkosta ad efla vora velgengni, bædi med ástundun í voru rjetta kalli og embætti, og med forsjálegri sparsemi, svo vel sjálfum oss til gagns, sem líka til ad géta hjálpad ödrum, er þess þurfa.

Post. Gb. 20, 34. 35. Postulinn Páll segir til Efesíustra: þjer vitid sjálfir, ad þessar hendur hafa fyrir mjer unnid til minnar naudþurftar, og þeirra, sem med mjer vóru. Allt sýnda eg ydur, ad svo byrjar oss ad vinna og veika ad annast, og minnast orda Drottins Jesú, þar

hann

hann sagdi: sælla er ad gefa enn þyggja, 1 Tim: 6, 17. 18.

b) J því ad stunda gagn vort, egum vèr ad varast óloglegann ávinning eda ágirnd, og ecki sækjast eptir audæfum, sem opt misbrúkast til ofmetnadar og óhófs. 1 Tim 6, 9. 10. Þeir, sem rikir vilja verda, falla í freistni og snorur, og margskyns heimskulegar og skadnæmar girndir, sem manneskjunna sockva í eydileggingu og töpun, því ágirndin er rót alls ills, Luc. 12, 15. 1 Cor 6, 10.

§. 2. a) Vèr egum ad keppast eptir ad ávinna oss heidur, vera í afhaldi og reiknast tróverdugir af vorum medbrædrum, hó samt ecki med ødru enn rádvendni og kostgæfni í voru rètta kalli og ein[illegible]. Phil 4, 8. Kiærir brædur! hvad sannarligt er og sidsamlegt, hvad rettvíst er, hvad skirlíft er og ástsamlegt, hvad sem er gott afspurnar, hvad dygdugt er, hvad hrósverdt er, hugsid þar eptir!

b) Þótt vèr hefum edlast allan þann heidur, sem vèr æskja kunnum, megum vèr samt ecki falla til metnadar edur drambsemi, helldur ætid stunda kristilegt litillæti, því vèr egum ad vita, ad alla hluti hefum vèr af Gudi þegid, og ad oss yfirsjest optlega, svo vèr þurfum fyrirgefningar vid.

Gal. 5, 26. Látum oss ecki sækja eptir hjegóma hrósi, og hvørki ógra hvørr ødrum, nje øfunda hvørr annann, Róm. 12, 10.

1 Pet. 5, 5. Verid skrýddir med litillæti, þvi Gud mótstridir dramblátum, en litillátum gefur hann nád, Matth. 23, 12. Ordsq. 29, 23.

§. 3. a) Vèr megum njóta ánægju í þessu lífi, af því ad brúka rèttilega þá mørgu gódu hluti, sem Gud hefir sínum skøpudu skèpnum til gagns og gledi gèfid, líka høfum vèr mikla ánægju af vinnu vorri, þegar vèr tilbærilega og med gladværu sinnislági gjørum hana.

Ps. 31, 8. Gledja skal eg mig, Drottinn! og vera gladvær af þinni miskunsemi, Phil. 4, 4. Ordsq. 17, 22.

b) Í vorri gledi egum vèr ad taka oss vara fyrir øllu því, sem strídir á móti gódri sidsemi, eda því, sem Gud hefir bodid í sínu ordi, og ecki álita hana, svo sem hellsta tilgáng vinnu vorrar, heldur eins og ávøxt af henni.

1 Cor. 7, 31. Þeir, sem brúka þenna heim, ega ad vera eins og þeir, sem ecki misbrúka hann.

§. 4. a) Vèr egum ad audsýna oss þolinmóda í mótlætinu, svo vèr hvørki örvæntum nè látum til vor heyra výl og harmatølur, heldur vera ánægdir med þad, sem

Gud

Gud vill vera láta, í vissri von ùm, ad hann ecki uppáleggi oss þyngri byrdi, enn hann siálfur vill géfa oss krapta til ad bera, og trúum stadfastlega, ad eptir hans tilætlun skuli þetta andstreymi þ..a oss til gagns og góda.

Ebr. 10, 35. 36. Kastid ecki burt ydar ørugga mód, hvørt mikil laun mun ødlast; þvi þier þurfid á stødugslyndi ad halda, svo ad nær þier hafid giørt Guds vilja, fáid ad ødlast þad, sem ydur hefir verid lofad, Rom. 8, 18.

b) Vorar þjáningar géta opt orsakast med ymsu móti af siálfum oss, en sá alvísi Gud lætur oss þær ad høndum koma til þess, ad vér athugum vora bresti, betrum voru lifnad, høldum voru sinni þvi meir frá hégóma veraldarinnar, og lærum ad leita vorrar kiærustu gledi af ad halda oss til hans med bæn og andakt.

Ebr. 12, 5. 6. Minn Son! vyrd ecki litilstyptun Drottins, og ørvilnast ecki þá hann ávitar þig; þvi hvørn sem Drottinn elskar, þann agar hann, Ps. 119, 7. Rom. 5, 3.

§. 5. Vér egum ad fordast allt ydjuleysi, hvert ad er orsøk til mikils ills, og taka oss vara fyrir ad vera ødrum til þyngsla, heldur egum vér þarámót, med kostgæfilegri ydni og ástundun, hvørr í sinu standi,

ad leita vorrar atvinnu, því Gud hefir gefid oss kraptana til þess, ad vèr skulum brúka þá, og efla þarmed vort egid og annara gagn.

1 Theff. 4, 11. 12. Vjer áminnum ydur, kjærir brædur! ad þjer kostgæfid ad lifa í spekt, og ydar egid ad stunda, og ad vinna med ydar egin höndum, eins og vjer höfum bodid ydur, svo ad þjer getid sómasamlega umgengist þá, sem ecki eru af söfnudinum, og ad þjer seud uppá engann komnir, 2 Theff. 3, 11. 1 Pet. 4, 11.

## C.) Um Skylduna vid Náúngann.

Vèr erum skyldugir ad elska vorn náúnga eins fölskalaust og sjálfa oss, þessvegna egum vèr ad breyta svo vid hann, eins og vèr viljum ad hann breyti vid oss. Þar fyrir egum vèr ad bera umhyggju bædi fyrir hans Sálu, hans Líkama og hans tímanlegri velferd.

Matth 7, 12. Jesús sagdi: Hvad þjer viljid ad mennirnir gjöri ydur, þad egid þjer líka þeim ad gjöra, því svo er kjennt í lögmálinu og Spámannabókunum, 3 Mos. b. 19, 18.

Merk: Serhvörr sá, sem er manneskja, er líka vor náúngi, og hefir sama rett eins og bródir til kjærleika vors og þenustusemi, hvört sem hann er innlendur eda útlendur, kristi-

kristinn eda Gydíngur, lyrki eda heidíngi, vinur eda óvinur, ædri eda lægri stettar, ríkur eda fátækur, og þegar hann þarf hjálpar vid af oss, þá erum vjer skyldugir til ad hjálpa honum af fremsta megni, án manngreinar álits, Luc. 10, 25. Post. Gb. 17, 26.

## 1.) Umhyggja fyrir Sálu Náúngans.

§. 1. Vèr egum, svo mikid sem oss er megulegt, ad greida veg vors náúnga til betra lífs í edrum heimi, og þessvegna hjálpa honum bædi med nytsamlegri tilsögn, gódum áminníngum, kjærleiksfullum advörunum, og umfram allt med gódu eptirdæmi, því Kristur hefir endurleyst hann eins og oss, til þess ad hann ásamt med oss; skyldi eignast eilífa sáluhjálp.

Jak. 5, 19. 20. Brædur mínir! ef nockurr á medal ydar villist frá sannleikanum, en einhvörr umvendir honum, sá skal vita, ad hvörr sem snýr syndaranum frá villu hans vegar, mun frelsa sálu frá daudanum, og hylja fjölda af syndum, 1 Þess. 5, 14. Ebr. 10, 24.

§. 2. Vèr egum varast ad kíkja nidur lyst náúnga vors til þess, sem gott er, þessvegna megum vèr ecki gefa honum hneixli med syndsamlegum ordum eda ó-

gudlegu framferdi, ecki heldur koma hon-
um til þess sem illt er, annadhvort med
hótunum, tillockunum, eda med raungum
fortølum.

Luc. 17, 1. 2. Jesús sagdi vid sína Lærisveina:
ómøgulegt er ad hneixlanir komi ecki, en vei
þeim manni frá hvørjum þær koma! þarfara
væri þeim ad mylnusteinn hengdist um háls
honum, og honum væri søckt í sjáfardjúp, enn
ad hann hneixli einn af þessum smælingjum.

2 Tim. 3, 13. Vondar manneskjur og svikarar
versna meir og meir, þeir svíkja og verda sviknir.

§. 3. a) Vér egum ecki ad láta egna
oss til heiptar reidi móti vorum náúnga,
eda sá hatur til hans, og leitast vid ad
hefna vor, þegar hann misbrúkar vid oss,
svo vér gjørum honum ecki hjartasorg, til
qvalar á sálu eda líkama.

Eph. 4, 26. 27. 31. Ef þjer reidist, þá syndgid
ecki, látid ecki sólina undirgánga yfir ydar reidi.
Gefid ecki tækifæri þeim, sem ber róg. Øll beisk-
yrdi, heipt, reidi, hávadi og illyrdi, sen lángt frá
ydur, ásamt med allskonar illmennsku.

1 Joh. 3, 15. Hvørr sem hatar bródur sinn, sá
er mordingi, og þjer vitid ad enginn mordingi
hefir eilíft líf, Jak. 1, 19.

b) Þad er kristileg skylda, ad vér
med hógværd umberum breiskleika vors
náúnga, þegar hann hefir gjørt oss nockud
á móti,

á móti, og ad vér fyrirgéfum honum, eins og Gud fyrirgéfur sjálfum oss vegna Krists. Auk þessa egum vér, svo mikid sem oss er mögulegt, med vinsamlegum fortølum ad koma honum til ad sjá ad sér, svo hann vari sig vid ad halda áfram í syndunum.

Marc. 11, 25. 26. Jesús sagdi: fyrirgefid, ef þjer hafid nockud á móti einhvørjum, svo ad ydar Fadir, sem er á himnum, fyrirgefi ydur líka ydar brot. En ef þjer fyrirgefid ecki, þá mun ydar Fadir, sem er á himnum, ecki heldur fyrirgefa ydar afbrot.

Col. 3, 12. 13. Svo skrýdist nú, sem Guds útvaldir, heilagir og elskanlegir, hjartfólginni miskunsemi, gódvilja, audmýkt, hóglyndi, lánglundargedi, umlídid hvørr annann, og ef nockurr hefir klögumál mót ødrum, þá fyrirgefid þad hvørr ødrum innbyrdis, eins og Kristur hefir fyrirgefid ydur, svo gjørid þjer og einig.

§. 4. a) Vér egum hvørki ad hata jafnvel vora óvini, sem annadhvørt heimuglega eda opinberlega vilja gjøra oss skada, né í nockurn máta sjálfir hefna vor á þeim, svo vér ecki géfum þeim efni til stærri vondsku, eda séum orsøk í þeirra sálartjóni.

Rom. 12, 14. 17. 19. Blessid þá, sem ofsækja ydur; blessid enn bølvid ecki; gjaldid engum illt fyrir illt; ef mögulegt er, þá hafid frid vid alla menn, svo mikid sem í ydar valdi stendur; hefnid ydar ecki sjálfir.                b)

b) Þegar vorir óvinir sækjast eptir ad skada vort líf, spilla vorri velferd, eda giöra oss vidskila vid vort góda mannord, megum vér verja oss móti þeim med almennilegum réttargángi, en vera samt ætíd reidubúnir ad sættast vid þá, bidja fyrir þeim, og hjálpa þeim eptir megni, ef þeir þess vidþurfa, eins og Gud hefir audsýnt oss miskunsemi Krists vegna, og fyrir hans sakir vill fyrirgefa siálfum oss.

Matth. 5, 25. 44. Jesús sagdi: vertu strax viljugur til ad sætta þig vid þinn mótstödumann, medan þú ert enn á vegi med honum. Eg segi ydur: elskid óvini ydar, blessid þá, sem ydur bölva, giörid þeim gott, sem ydur hata, og bidjid fyrir þeim, sem ydur gjöra skada og ofsækja ydur, svo ad þér séud börn födurs ydar, sem er á himnum. Rom. 13, 3.

Rom 12, 20, 21. Ef óvin þinn húngrar, þá gef honum ad eta; ef hann þyrstir, þá gef honum ad drecka. Lát ecki hid vonda yfirbuga þig, en yfirvinn hid vonda med gódu, Rom. 5, 8.

§. 5 a) Vér hofum engann rétt til ad fyrirdæma nockra manneskju, þó ad hún hafi rángar meiningar, eda vegna þess, hún er ecki sömu trúarbragda, sem vér, heldur egum vér, eins og sannkristnir, ad

ad fela vora frávilltu brædur Guds miskun á hendur, og gledjast af þeirri von, ad þeir muni verda hluttakandi í Kristis endurlausn, þegar þeir hafa vandad sitt framferdi eptir þeirri þeckingu, sem þeir hafa haft færi á ad edlast.

Post. Gb. 10, 34. 35. Eg reyni í sannleika, ad Gud fer ecki i manngreinar álit, heldur er hvörr sá, sem óttast hañ og gjörir hvad rett er, hönum þócknanlegur af hvada þjód sem hann er, Rom. 14, 4 10. 13.

b) Vér megum öldúngis enga grunsemd fá, ad þeir hafi drygt nockurn sérdeilis glæp, sem ratad hafa í eymd og volædi, því Gud úthlutar, eptir sinni alvísu rádstöfun, sorg og gledi, hvörjum sem hann vill, ecki til ad straffa þá, heldur ödrum til vidvörunnar.

Luc. 13, 2. 3. Jesús sagdi: meinid þjer, ad þessir Galiliskir, hvörra blódi Pilatus hafdi úthellt, hafi verid syndugri enn allir adrir Galiliskir, þó þeir hafi ordid fyrir þessu? nei! segi eg ydur: heldur, ef þjer takid ecki sinnaskipti, munud þjer allir eins fyrirfarast. Joh. 9, 1.

## 2.) Umhyggja fyrir Líkama Náúngans.

§. 1. Vér megum ecki leggja hendur á vorn náúnga, hvorki til ad fyrra hann

lífi, né gjøra heilsu hans og limum skada, því þar med rænum vèr frá honum því stærsta góda, sem Gud hefir gèfid honum í þessu lífi, og sú dréttvísi er svo vidurstyggileg í Guds augliti, ad hann líka vill hún verdi straffud hèr í heimi, eptir Yfirvaldsins tilhlutun.

2 Mos b. 20, 13. Þú átt ecki ad slá manneskju í hel, Gal. 5, 20.

2 Mos. b. 9, 6. Hvørr sem úthellir blódi nockurrar manneskju, hans blód skal af ødrum mañi úthellt verda; því Gud gjørdi manninn eptir sinni mynd, Róm. 13, 3.

§. 2. Vèr megum ecki uppáleggja vorum náúnga meira ervidi enn hann gètur afkastad, svo vèr ecki veikjum hans kraptana, ecki heldur megum vèr gjøra honum hjartasorg, af hvørri lífi hans eda heilbrygdi kynni ad verda hætt.

Tit. 3, 2. Minntu þá á, ad þeir ecki lastyrdi neinn, seu ecki þrætugjarnir, heldur eptirlátir, og audsýni allskyns hógværd vid hvørn mañ.

§. 3. Vèr egum ad vara náúngann vid því, sem honum er skadvænlegt, og ráda honum til þess, sem honum er hollast, svo hann ecki med óframsýni stytti líf sitt; þaradauki egum vèr ad hjálpa honum eptir efnum, og engannveginn synja honum um vora lidveitslu, þegar naudsyn krefur, Phil.

Phil. 2, 4. Serhvørr ydar gæti, ecki einúngis ad sinu gagni, heldur og lika añara.

Merk: Vor skylda i tilliti til náúngans lífs og likama, er i stuttu máli framsett i fimta bodordi Frædanna.

## 3.) Umhyggja fyrir tímanlegri Velferd Náúngans.

§. 1. a) Vèr megum ecki med neinu gèf= tilefni til, ad naúngi vor mißi nock= ud af sinu gótzi eda fjármunum, sem eru hans egin, og Gud hefir honum gèfid, til ad efla med hans velferd, heldur egum vèr ad bera umhyggju fyrir, ad hann hafi sitt allt óskaddad.

2 Mos. b. 20, 17. Drottinn sagdi: Þú átt ecki ad girnast hús náúnga þíns.

b) Enginn má stela frá sinum náúnga, eda leyni=ega gjøra hann vidskila vid neitt af því, sem hann á, móti vilja hans og vitund.

2 Mos. b. 20, 15. Drottinn sagdi: Þú átt ecki ad stela.

c) Enginn má ræna, eda taka med ofriki frá sinum náúnga, þad, sem honum tilheyrir.

1 Cor. 6, 10. Þjófar og ræníngjar skulu ecki fá Guds riki.

d) Enginn má svíkja sinn náúnga, eda draga undir sig nockud af þvi, sem honum tilheyrir, med undirhyggju og vjelum, svo sem med rángri vigt eda mælir, óhýtum varningi, okri, eda ødrum þvílíkum svikum og prettvísi.

1 Thess. 4, 6. Enginn sviki eda áseliſt sinn bródur i vidskiptum, þvi Drottinn er sá, sem hefnir alls þvílíks, Ordsqv. 11, 1.

e) Enginn má locka fólk eda fé med blegsilegum hætti frá sínum náúnga, honum til skada, hverki med þótunum né vjelum.

2 Mos. b. 20, 17. Drottinn sagdi: þú átt ecki ad girnast þins náunga ektaqvinnu, ellegar hans þjón, ellegar hans þjónustuqvinnu, ellegar hans uxa, ellegar asna, ellegar nockud, sem heyrir þinum náúnga til.

§. 2. a) Vèr egum ad láta náúnga vorn njóta rèttar í øllum hlutum, og engann veginn gjøra honum órètt, hvert sem hann er ríkur eda fátækur, ædri eda lægri stèttar, þared bædi Guds ord og skynsemi vor banna oss ad gjøra þad ødrum, sem vèr ecki viljum þeir gjøri oss.

Matth. 5, 20. Jesús sagdi: nema ydar rettlæti taki mikid fram Skriftlærdra og Phariseanna, þá kunnid þjer engannveginn ad koma inn í himnariki, Matth. 7, 12. Es. 1, 17.

b) Hvørt,

b) Hvørr, sem á yfir ødrum ad segja, má ecki vanbrúka makt sína, til ad undirþryckja eda skada þá, miklu heldur á hann ad brúka hana þeim til hjálpar og adstodar.

Ordsk. 14, 31. Hvørr sem nidurþryckir litilmagnanum, sá smánar þann sem skapadi hann, en sá heidrar Skaparann, sem miskunar sig yfir fátækann.

c) Vér megum enganveginn innihalda þeirra tilhlýdilegu launum, sem erfida fyrir oss, heldur egum vér ad gefa þeim í réttann tíma þad, sem þeim tilheyrir.

Jak. 5, 4. Sjáid! laun verkamannanna og þeirra, sem ydar akurløndt hafa uppyrkt, sem verid hafa af ydur innihaldin, hrópa, og sláttumannanna mikla qvein, er komid til Drottins Zebaoths eyrna.

d) Vér egum ad bæta vorum náúnga ad fullu, ef vér uppá nockurn máta hefum áseilst hann, eda gjørt honum skada.

1 Sam. 12, 3. Spámadurinn Samúel geck fram fyrir fólkid og sagdi: hjer em eg! svarid nú á móti mjer fyrir Drottni og hans Smurda: hefi eg tekid frá nockrum manni hans uxa eda asna? hefi eg sýnt nockrum manni ofriki eda órett? eda hefi eg þegid mútu, og látid þannig blinda min augu? se svo, skal eg skila þvi aptur, Luc. 19, 8. Ezech. 33, 15.

e) Vèr egum ecki ad misuña vorum náúnga þeirra gæda, sem Guds forsjón hefir látid honum hlotnast, heldur gledjast af hans velgengni.

Jak. 3, 16. Hvar, sem øfund og deilur eru, þar er vanstickan og øll ill vidskipti.

f) Vèr megum ecki ljúga ad vorum náúnga, eda innbyrla honum ósannindi, af hverjum annadhvert hann sjálfur eda adrir kynnu ad komast í ýmisleg vandrædi.

Eph. 4, 25. Afleggid lygar, en talid sannindi hvørr vid sinn náúnga, því vjer erum hvørr annars limur.

§. 3. a) Vèr megum enganveginn skérda æru náúnga vors, heldur þarámóti ad því leiti sem í voru valdi stendur, med øllum leyfilegum hætti leitast vid, ad hann nái allri þeirri virdíngu, sem hann á skilid, því gott mannord og rykti eru mikil gædi í þessu lifi, og aldúngis ómissandi, ef oss á vel ad gánga í voru embætti, stètt og ødru því oss vidkémur.

Rom. 13, 7. Svo gefid nú øllum hvad þjer erud þeim skyldugir, þeim heidur, sem heidur heyrir, 1 Pet. 2, 17.

b) Vèr megum ecki baktala, eda ljósta óhródri upp um vorn náúnga, og þar med skérda hans virdíngu.

Jak.

Jak. 4, 11. Hallmælid ecki hvørr ødrum, brædur mínir! því hvørr sem hallmælir bródur sínum og álasar honum, sá hallmælir løgmálinu og álasar því.

c) Vèr megum ecki dæma illa um náúnga vorn, medan hann ecki lætur sitt vonda hjartalag í ljosi, med opinberum illverkum.

Matth. 7, 1-3. Jesús sagdi: dæmid ecki hardt, svo þjer verdid ecki hardt dæmdir, því med þeim sama dómi, sem þjer adra dæmid, munud þjer sjálfir dæmdir verda, og med þeim sama mælir, sem þjer mælid út, skal ydur inn aptur mælt verda. En því sjer þú flýsina, sem er í þíns bródurs auga, en ad vaglinu, sem er á sjálfs þíns auga, gætir þú ecki.

d) Vèr egum ecki ad sýna náúnga vorum forakt, hvørki í ordum nè med vidmóti, hvørsu lítilmótlegur sem hann er eda audvyrdilegur.

Matth. 18, 10. Jesús sagdi: sjáid til, ad þjer ecki forsmáid neinn af þessum smælíngjum.

e) Vèr egum ecki ad bera út bresti vors náúnga, heldur miklu fremur þegja yfir þeim, og heldur afsaka enn áfella hann, þegar hann er lastadur af ødrum.

1 Pet. 4, 8. Umfram alla hluti, hafid stødugann kjærleika innbyrdis, því kjærleikurinn hylur margar syndir, Ordsq. 10, 12.

§. 4. a) Þegar náúngi vor er nauðstaddur, egum vèr að láta oss vera ant um að hjálpa honum, og gjøra allt, sem oss er mögulegt til að gjøra hans mæðu léttari, og koma í veg fyrir hans eyðileggíngu, þareð oss má til hugar koma, að enginn veit nema sama neyð kynni oss líka að höndum bera, og vèr þá gjarnan vildum að aðrir hjálpuðu oss.

Ebr. 13, 16. Gleymið ecki að gjøra gott og útbýta, því þær fórnir þóknast Guði vel.

b) Sèrhvørr kristinn er, eptir Krists dæmi, og hans vegna, skuldbundinn að hjálpa þeim, sem eru sannarlega nauðlíðandi, og annaðhvert vegna heilsubrests eða elli, ecki geta sjálfir leitað sèr atvinnu, eða þeim, sem með allri sinni atorku, ecki geta unnið nægilega fyrir sèr og sínum, eða þeim, sem á ónaga aldri eru munaðarlausir.

Matth. 25, 35-40. Á dómsdegi mun Jesús opinberlega segja þeim guðhræddu til hróss og upplífgunar: húngraður var eg, og þjer gáfuð mjer að eta; þyrstur var eg, og þjer gáfuð mjer að drecka; gestur var eg, og þjer hýstuð mig; nakinn var eg, og þjer klædduð mig; sjúkur var eg, og þjer vitjuðuð mín; í fángelsi var eg, og þjer komuð til mín. Það, sem þjer gjørðuð einum af þessum mínum minnstu bræðrum, það gjørðuð þjer mjer.

c) Að-

c) Ydjulausir húsgángsmenn og betlarar, sem hafa krapta til ad leita sér atvinnu med leyfilegum hætti, en nenna því ecki, ega ecki ad fá ølmusu, heldur á ad þrýsta þeim til almennilegrar vinnu.

2 Theſſ. 3, 10 - 12. Vjer søgdum ydur svo fyrir, ad sá, sem ecki vill vinna, ætti ecki heldur mat ad fá; en vjer høfum frett, ad sumir lisa í óſkicki hjá ydur, sem eckert vinna, en gjøra óþarfa. J Drottins vors Jesú Krists stad, skipum vjer þvílíkum og áminnum þá, ad þeir seu kyrrir vid vinnu sína, og hafi sjálfir fyrir ser.

d) Vér egum án yfirdrepskapar adsamhriggjast med vorum náúnga, hughreysta og uppørfa hann, og lidsinna honum, med allri þénustusemi.

1 Theſſ. 5, 14; Huggid istødulitla, adstodid veika, og umlídid hvørr annann, Róm. 12, 15.

e) Ef vor náúngi verdur sundurþycktur vid adra, egum vér leggja allt kapp á ad sætta þá, koma forlíkun á, og þannig afstýra þeim skada, sem annars hefdi máské þaraf hlotist.

Matth 5, 9. Jesús sagdi: sælir eru þeir, sem fridinn semja, því þeir munu Guds børn kallaðir verda, Ordsq. 12, 10.

Merk: Vor skylda í tilliti til góds mannords og fjármuna vors náúnga, er í stuttu máli

 fram-

framsett í Sjöunda, Attunda, Níunda og Tíunda Boðorðum Fræðanna.

## D.) Um Skylduna í sérhvorri Stétt.

Auk þeirrar almennilegu Skyldu, sem á manneskjunum liggur, að því leiti sem þær eru manneskjur, eru einnig til ýmisar sérdeilislegar skyldur, sem þeim uppáleggst, hvorri útaf fyrir sig; eptir því kalli og embætti, sem Guð hefir þær í sett.

1 Pét. 4, 11. Ef nockurr hefir embætti, sá þjóni eptir þeirri orku, sem Guð gefur honum, svo að í öllum hlutum verði Guð dýrkaður, fyrir Jesú Krist.

## 1.) Ektamaður og Ektaqvinna.

§. 1. Eptir Guðs boði, á einn maður að lifa í hjónabandi með einni ektaqvinnu, og ega þau að hafa hreinann kjærleika hvort til annars, bera jafnan umhyggju hvort fyrir annars tímanlegri og eilífri velferð, biðja hvort fyrir öðru, og lifa í ævarandi einingu þangað til dauðinn aðskilur þau.

Matth. 19, 4-6. Jesús sagði: hafið þjer ecki lesið: að sá, sem í upphafi skapaði manneskjuna, hann skóp einn mann og eina konu? og hann sagði: fyrir því skal maðurinn yfirgefa föður og móður, en vera hjá eginkonu sinni, og þau

tvö

twø skulu verda eins og ad einni manneskju. Hvad Gud hefir samtengt, þad má manneskjan ecki sundurskilja.

§. 2. Madurinn á einkanlega ad elska sína ektaqvinnu eins og sjálfann sig, vyrda hana, vera henni trúr, sjá fyrir hennar atvinnu, ráda henni heilt, og umbera hennar bresti med kjærleika.

Eph. 5, 28. Mennirnir eru skyldugir ad elska þeirra eiginkonur, eins og sinn eiginn líkama; hvørr, sem elskar sína eginqvinnu, hann elskar sjálfann sig.

1 Pet. 3, 7. Þjer, menn! búid vid ydar eginqvinnur med skynsemi, eins og þær, sem eru breiskari konur, og audsýnid þeim vyrdingu, svo sem þeim, sem líka eru samerfingjar þeirrar nádar, ad fá eilífa farsæld.

Ebr. 13, 4. Hjúskapurinn á heidurlegur haldinn ad vera hjá øllum, og hjónasængin óflekkud, en frillulífis og hórunnarmenn mun Gud straffa.

§. 3. Konan á sérílagi ad elska sinn ektamann, med innilegri velvild, vera honum trú og hlýdin af kjærleika, stjórna innanhúss med kostgæfni og forsjálni og auk þess vera honum rádholl og þenustuviljug.

Eph. 5, 22. 23. Þjer, konur! verid ydar eginmønnum undirgefnar, eins og Drottni, því madurinn er qvinnunnar høfud, eins og Kristur er safnadarins høfud.

Tit.

Tit. 2, 4. 5. Postulinn Páll vill láta kenna úngum konum: ad elska þeirra ektamenn og børn; og ad þær seu skirlífar, sidsamar, umsjónarsamar, gódlyndar, og bændum sínum undirgefnar, svo ad Guds ord verdi eckí fyrir lasti.

## 2.) Foreldrar og Børn.

§. 1. a) Foreldrarnir eiga ad uppala sín børn til gudhrædslu, svo þau læri frá barnæsku ad þeckja, elska og heidra Gud; líka ad varast syndir og lesti, því þeir eru Gudi andstyggilegir, en stunda eptir dygdum og mannkostum, því þeir þócknast Gudi; svo eiga børnin og venjast til ad setja sína von og traust einúngis til Guds nádar og miskunsemi vegna Krists.

Eph. 6, 4. Þjer fedur, ertid ecki ydar børn til reidi, heldur alid þau upp med aga og umvøndun til Drottins.

b) Líka heyrir þad til góds uppfósturs, ad børnin venjist til ydnis, sparsemis, þrifnadar, audsveipnis, og til ad fylgja sannleikanum, án yfirhylmíngar. Foreldrarnir eiga einnig ad gánga undan þeim med gódum eptirdæmum og láta aldrei hjálída naudsynlega hyrtíngu, þegar þau ecki vilja hlýda áminníngum.

Orðsq. 13, 24. Hvǫrr sem hefir áſt á barni ſínu, agar þad snemma, 1 Sam. 3, 10.

§. 2. Børnin eiga ad heidra foreldra ſína, og hlýda þeim í ǫllu gódu, elſka, þacka og þiǫna þeim, og vera þeim til gledi med gódu og ſidſamlegu ſamferdi

2 Moſ. 6. 20, 12. Drottinn ſagdi: Heidra fǫdur þinn og módur þína, ſvo þú lifir lengi í landinu.

Ehp. 6, 1-3. Þjer bǫrn! verid hlýdin ydar foreldrinu Drottins vegna; því þetta er rett: heidra fǫdur og módur, þad er hid fyrſta bodord, ſem fyrirheiti er lagt vid: ſvo þjer vegni vel, og þú megir lifa í landinu, 2 Sam. 18, 6.

## 3.) Húſbændur og Þjónuſtufólk.

§. 1 a) Húſbændur og Matmædur eiga ad bera umhyggju fyrir velferd ſíns þjónuſtufólks, og hellſt med gódu halda því til ad vera audſveipid, ſem og ydid og reglufaſt í því, ſem þad á ad gjøra. Þau ſkulu einnig gefa þeim tilhlýdileg fœt, fœdu og laun, og ecki gleyma ad ala onn fyrir þeirra uppfrædíngu og betrun til ſáluhjálpar, og líka veita þeim hjúkrun, einkum þá þau eru veik eda gǫmul.

Col. 4, 1. Þjer húſbændur! audſýnid ydar þjenurum hvad rett og jǫfnudur er, og vitid, ad þjer einnig hafid Herra á himnum.

b) Hvǫr-

b) Hvørki má Hóßbóndi né Húßmódir breyta illa vid sitt þjónustufólk med illyrdum, eda annari óleyfilegri eda ofríkisfullri adferd; ecki heldur mega þau reyngja þad med óvidurqvæmilegri torttryggni, eda herda ad því um megn fram, heldur ega þau ad umbera þeß breiskleika med þolinmædi.

Eph. 6, 9. Þjer húßbændur! hættid ógnunum, og vitid, ad ydar Herra er líka á himnum, og ad hjá honum er eckert manngreinar álit.

§. 2. Þjónustufólk á þarámóti ad heidra og elska sína Húßbændur og Matmædur, vera þeim hlýdid og trútt, og gjøra verk sitt med ydju og ástundun, án svika eda moglunar, eins og sjálfur Gud sjái uppá þad

Tit. 2, 9. 10. Aminn þjenarana, ad þeir seu húßbændum sínum undirgefnir, og gjøri hvad þeim gedþeckt er í øllum hlutum, veri ecki svørulir nje sterplægnir, heldur sýni þeim alla hollustu, svo ad þeir prýdi lærdóm Guds vors Endurlausnara í øllum greinum, Eph. 5. 6.

## 4.) Yfirvald og Undirgéfnir.

§. 1. a) Yfirvaldid hefir, eptir Guds ordi, rjett til ad útheimta hlýdni í øllu

þvi,

Þvi, sem þéhar til almennilegra nota, og ecki stríðir móti Guds bodi

Róm. 13, 1. 2. Hvørr madur se valdstjórninni undirgefinn, því engin er valdstjórn nema af Gudi, og sú valdstjórn sem er til, er af Gudi tilskickud, svo hvørr sem mótstendur valdstjórninni, sá stendur á móti Guds skipun, en þeir sem í mót standa, munu yfir sig leida dóms áfelli.

Post. Gb. 5, 29. Þegar hefdíngiar Gydínganna krøfdust hlýdni í því, sem var á móti gódri samvitsku, svørudu Petur og Johannes: fremur ber ad hlýda Gudi enn manneskjum.

b) Þad er skylda Yfirvaldsins, eptir Guds bodi, ad vaka yfir undirsátanna velferd, stadfesta þana med gódum lögum, einnig ad veenda þá gódu, en refsa þeim vondu, og láta sérhvørn ná rétti sínum án manngreinar álits.

Róm. 13, 3. 4. Valdstjórnin er ecki gódum verkum, heldur vondum til skelfingar. Viljir þú ecki vera hræddur vid valdstjórnina, þá gjør þad sem gott er, og muntu umbun af henni fá; því hún er Guds þenari þjer til góda; en ef þú gjörir illt, þá máttu vera hræddur, því hún ber ecki sverdid forgefins, þared hún er Guds þenari til ad straffa þá sem illa breyta, 5 Mós. b. 1, 16.

§. 2. Þeir undirgefnu ega, vegna Guds, ad hlýda Yfirvaldinu og þess tilskipun, líka gjalda sviklaust sínar skyld-

 ur

ur og skatta, sem útheimtast til sameiginlegra nota, landsins varnar og naudsynja, þeir ega einnig ad heidra Yfirvaldid, vera því hollir og undirgefnir, og bidja fyrir því.

Róm. 13, 5-7. Þad er naudsynlegt ad vera undirgefinn, ecki einúngis vegna straffsins, heldur og fyrir samvitskunnar sakir; því þar fyrir gjaldid þjer og skatt, vegna þess þeir eru Guds þjónar, sem vid þá þjenustu eru sífeldlega bundnir. Svo gefid hvørjum þad, sem þjer skyldugir erud: þeim skatt, sem skatt ega; þeim toll, sem toll á; þeim ótta, sem ótti tilheyrir; þeim heidur, sem heidur heyrir.

1 Pet. 2, 13. 14. Verid undirgefnir allskonar rettu Yfirvaldi, vegna Drottins, hvørt sem þad er Konúnginum, svo sem þeim ypparsta, eda Landstjórnurunum, svo sem þeim, hvørja hann hefir útsendt, til hefndar yfir illvyrkjana, en þeim til umbunar, sem gjøra gott, 2 Tim. 2, 1.

## 5.) Kénnendur og Tilheyrendur.

§. 1. a) Kénnendurnir ega ad kunngjøra Guds ord án yfirdrepskapar med eilífri ástundun til uppbyggingar, áminna og ádvara án manngreinar álits, þeir ega og einnig láta sér innilega vera umhugad um, ad børnunum sé svo skilmerkilega kennt, ad þau hafi gagn þar af, líka ega þeir ad leitast alvarlega vid, ad edla sinna tilheyrenda

enda framfer í sennum Guds ótta til eilífrar sáluhjálpar.

Tit. 1, 9. Sá sem er Biskup, Kennimadur eda Tilsjónarmadur, á ad halda fast vid þann vissa lærdóm, svo hañ bædi geti áminnt med heilsusamlegri kenníngu, og líka sannfært þá, sem á móti mæla, 1 Pet. 5, 2.

b) Kennendurnir eiga ad gánga á undan sínum tilheyrendum med gódu eptirdæmi í lifnadi og umgengni, vera blídir og hóglátir, bidja fyrir þeim, og prýda kénnínguna med óstraffanlegu framferdi.

1 Tim. 3, 2. 3. Sá sem er Biskup, eda Kennimadur og Tilsjónarmadur, á ad vera óstraffanlegur, einnar konu eiginmadur, árvakur, hófsamur, sidprúdur, gestrisinn, sem se vel fallinn til ad kenna ødrum. Enginn drykkjumadur, ecki skyrrjaldarsamur, einkis ósæmilegs ávinníngs girnugur, heldur sanngjarn, ecki þrætusamur, ecki ágjarn.

§. 2. Barna uppfrædendur eiga ad innprenta í hjørtu þess úngdóms, sem þeim er á hendur falinn, lotníngu fyrir Gudi og Kristi, elsku til þeirra, útleggja skiljanlega fyrir honum þad, sem hann á ad læra, halda honum til ástundunar, hæversku og gódra sida, þvíad í æskunni á ad leggjast grundvøllurinn til manneskjunn-

ar eptirfylgjandi lucku og velgengnis um tíma og ei'ísd.

Ordsq. 22, 6. Kenn þeim únga þann veg, sem hann á ad gánga áfram til dygda og rádvendnis, og þegar hañ eldist, mun hann ecki af honum víkja.

§. 3. Tilheyrendurnir ega ad audsýna laungun eptir Guds orði, og trúlega fylgja' sinna Kennenda áminningum, sem á þvi eru bygdar, einnig veita þeim alla vyrdingu, elska þá, og gjalda góðfúslega þad, sem þeir ega ad hafa til sins sæmilegs uppheldis.

Ebr. 13, 17. Hlýdid ydar Kennifedrum og lútid ad ordum þeirra, þvi þeir vaka yfir sálum ydar, svo sem þeir, ed reikning ega ad standa, svo þeir geti gjört þad med gledi, en ecki med andvarpan, þvi þar hafid þjer ecki gott af.

Gal. 6, 6. Sá sem frædist i ordinu, hann býti hinum allskonar gædum, sem uppfrædir hann. 1 Tess. 5, 12.

Merk: Foreldra og barna, húsbænda og hjúa, einnig Yfirvalds og undirgefinna skylda hvers vid annad kunbyrdis, er i stuttu máli framsett i Fjórda Bodordi Frædaña og i Hússtøbluñi, hvar lika talad er um skyldu kennenda og tilheyrenda. J Sjøtta Bodordinu og i Hússtøbluñi talast greinilega um skylduna i hjónabandi.

---

Sjø-

# Sjöundi Kapituli.

## Um þau Medöl, sem styrkja Trúna og efla Gudhrædsluna.

### 1.) Guds Ord.

§. 1. Gud hefir látid kēña oss med sínu ordi um allt sitt rád og sinn vilja, oss til Frelsunar og betrunar; en þetta hans ord er bædi ad finna í Gamla og Nýa Testamentunum.

Ebr. 1, 1. Eptir ad Gud fordum optsinnis og uppá margann máta hafdi látid Spámennina tala til Forfedranna, þá hefir hann á þessum sídustu tídum látid Soninn tala til vor.

Joh. 17, 8. Jesús sagdi í bæninni til síns himneska Födurs: Þau ord er þú gafst mjer, þau gaf eg mínum Lærisveinum, þeir hafa þau og meðtekid, og þeckja sannarlega, ad eg er af þjer útgenginn, og þeir trúa því, ad þú hafir útsendt mig.

Merk: a) Jesús hafdi lofad sínum Lærisveinum, ad senda þeim heilagann Anda, sem skyldi fræda þá um alla hluti, og minna þá á allt þad, sem hann hafdi kjennt þeim, Joh. 14, 26; þetta skedi likaá fyrsta Hvítasunnu-

sunnudegi eptir hans himnaför, þegar þeir allir, uppfylltir af heilögum Anda, tóku til ad tala útlend túngumál, eptir því, sem Andinn inngaf þeim, Post. Gb. 2, 4.

b) Vjer þurfum ecki uppfrædast ad nýu um Guds rád og vilja, med neinskonar nýrri opinberun, því þad Guds ord, sem vjer höfum, inniheldur allt hvad vjer í því tilliti vidþurfum, Post. Gb. 20, 20. 21.

c) Þó einhvörr nú segdi, ad hann hefdi ödlast nockra nýa guddómlega opinberun, ættum vjer samt engañvegiñ ad trúa honum, þared Gud hefir hvörgi lofad ad senda nýa Spámenn, til mannkynsins upplýsingar, Gal. 1, 8. 9.

§. 2. Þad er vor skylda, ad rannsaka kostgæfilega Guds ord, til ad læra þaraf hvad vèr egum ad varast, og hvørs vèr egum ad gæta, því annars mün Gud krefja oss til reikningsskapar fyrir vora vankunnáttu, og þaraf fljótandi bodorda brot.

Ps. 119, 9-11. David spyr: hvörninn getur æskumadurinn gengid sinn veg óstraffanlega? en hann svarar ser siálfur: med því ad breyta eptir þínum ordum, Drottinn! eg geymdi þitt ord í minu hjarta, svo eg syndgadi ecki á móti þjer.

Merk: Þegar vjer höfum tómstundir frá vinnu vorri, væri gott ad vjer læsum daglega nockra stund í Ritníngunni. En á

Sunnu-

Sunnudøgum og ødrum helgum finur sú kristin manneskja, sem elskar Guds ord, hæglega tækifæri til ad lesa þad, og þad er ætíd nytsamlegra, ad byggia trú sína á egin ransókun, eins og þeir í Berroha fordum giørdu, Post. Gb. 17, 11., en ad láta ser einúngis nægja Kennendanna søgusøgn.

§. 3. a) J Guds ordi koma fram mørg dæmi bædi uppá dygdir og lesti, sem vér egum ad taka oss til eptirþánka, þar þau eru eptir Guds vilja uppskrifud oss til eptirdæmis og vidvørunar.

Jak. 5, 10. Takid Spámennina, sem til ydar hafa talad í Drottins stad, til eptirdæmis uppá ad lída illt, og ad vera þolinmódir, Ebr. 6, 12. 1 Cor. 4, 16.

2 Pet. 2, 6. Drottinn hefir borgirnar Sódóma og Gommorra fordæmt, umturnadi þeim, brenndi þær til øsku og setti til dæmis fyrir þá, sem eptirá mundu lifa ógudlega.

b) Einkanlega egum vér ad gefa gætur ad Jesú Krists vors Lausnara heilaga líferni, og ætíd hafa hans dæmi fyrir augunum ad breyta eptir.

Matth. 11, 29. Jesús sagdi: lærid af mjer, því eg em hógvær og af hjarta lítillátur.

1 Pet. 2, 21. Kristur hefir einnig lidid fyrir ydur, og ydur eptirdæmi eptirlátid, ad þjer skyldud feta í hans fótspor.

Merk: Jesús Kristur getur ecki verid oss til eptirdæmis ad þvi leiti, sem hañ er Guds Sonur, kominn í heiminn til ad endurleysa syndarana, og med kraptaverkum stadfesta, ad hann væri af Gudi sendur; lika og gaf sig sjálfur í daudann til fridþægíngar offurs fyrir allrar veraldarinnar syndir; en vjer egum kappkosta ad líkjast honum í øllum þeim dygdum, sem eru samqvæmar voru ástandi, og ecki yfirgánga mannlega krapta.

§. 4. a) Ad hafa Guds ord kostgæfilega um hønd, heyra þad med andakt og viljuglega læra, er hid rètta medal, med hvørju sannkristin manneskja getur farid æ meir og meir dagvaxandi og ordid stadføst í dygd og gudhrædslu, med samverkandi heilags Anda nád.

2. Tim. 3, 16. 17. Øll Ritníngin er innblásin af Gudi, og nytsamleg til lærdóms, til sannfæríngar, til leidrettíngar, til uppfrædíngar í rettlætinu, svo ad Guds madur se algjørr, og til alls góds verks hæfilegur.

b) Vor skynsemi fær hvad af hvørju meiri og meiri þeckíngu af Guds ordi til andlegrar og ávaxtarsamrar upplýsíngar.

2 Tim. 3 15. Þú kannt heilaga Ritníngu, sem getur uppfrædt þig til sáluhjálpar, med trúarlærdóminum um Jesú Krist, Joh. 5, 39. Ps. 119, 104. 105.

c) Vor

c) Vor vilji á kröptuglega ad hneg- ǀast af þeim morgu og dyrmætu áminning- um og advörunum, sem finnast í Guds ordi, til ad fordast illt, en stunda eptir því sem gott er, líka upperfast til ad gjöra med allri ástundun þad, er oss byrjar.

Luc. 8, 15. Jesús sagdi: þeir sem ordid heyra, og geyma þad i godu og sidsemu hjarta, særa ávöxt med stödugl yndi, 8, 31. 32.

d) Vér getum, hverninn sem ástatt er fyrir oss, fundid huggun og rósemi af Guds ordi, sem inniheldur gædskurkustu loford um Guds nád og blessun Krists vegna.

Joh. 17, 13. Jesús sagdi i bæninni til síns himneska Fodurs: þetta tala eg i heiminum, svo adminir Lærisveinar hafi af mjer fullann sögnud med sjálfum sér, Ps. 19, 9. 119, 24

Merk: Um rettilega brúkun Guds ords, er i stuttu máli talad i syrstu bæniñi i Frædunum.

## 2.) Arvekni og Bæn.

§. 1. Vér egum gaumgæfilega vaka yfir hugrenningum vorum og girndum, þar vort edli er breiskt, en freistingarnar eru margar, svo engin heimugleg lysting til ills gæti ad hverum fengid yfirhönd hjá oss, líka egum vèr ydugl ega og nákvæmlega halda.

halda reikníng vid sjálfa oss um vorn lifnad og framferdi.

Matth. 26, 41. Jesús sagdi: vakid og bidjid, svo ad þjer fallid ecki í freistni; Andinn er ad sönnu reidubúinn, en holdid er veikt.

2 Cor. 13, 5. Rannsakid ydur sjálfa, hvört þier erud sanntrúadir, reynid ydur sjálfa.

§ 2, a) Gud vill ad vér skulum ydugleg a bidja, og er þad sjálfum oss til gagns, því ecki þurfum vér ad minna hann á neitt med vorri bæn, þared hann veit fyrirfram, bædi hvers vér vidþurfum, og líka hvörnig best verdi rádin bót á því.

Luc. 18, 1. Jesús sagdi: þjer egid jafnan ad bidja og ecki þreytast, Matth. 7, 7. 1 Thess. 5, 17.

b) Bænin á ad vera oss medal, bædi til ad styrkja vora elsku og traust á Gudi, og til ad snúa vorum huga frá hégóma veraldarinnar; bænin gefur oss undir eins krapta til ad standa á móti freistíngunum, og til ad bera vorar þjáníngar med þolinmædi.

Phil. 4, 6. 7. Verid ecki húgsjúkir, heldur látid í öllum hlutum ydar bænir, med þacklæti, koma fyrir Gud, í beidni og ákalli, þá mun fridur Guds, sem meiri er enn nockurr kann ad þenkja, vegna Jesú Krists, vernda ydar hjörtu og hugrenníngar.

Merk:

Merk, Gud hefir ecki tiltekid hvad opt hvør einn Kristinn á ad bidja, en ef hann elskar Gud einlæglega, verdur þad ætíd hans innilegasta gledi, ad útausa sinu hjarta fyrir Gudi med vonarfullri bæn, hvenær og hvar hellst sem honum gefst færi á. Badi qvøld og morgna høfum vier tíma og tækifæri til þess líka optar um daginn midt í vinnu vorri.

§. 3. a) Vér megum bidja Gud um allt þad góda, sem hann hefir í sínu ordi lofad ad gefa oss, og sem er bædi sálu og líkama nytsamlegt; en af jardneskum hlutum egum vér sérilagi ad bidja hast um góda heilsu og daglegt braud, heidur í voru standi, frid vid vorn náunga, og blessun í vorri leglegri stétt.

Ordsq. 30, 8. Agúr bad: gef mjer hvørki fátækt nje audæfi, en láttu mig hafa mitt afskamt ad uppheldi.

Matth. 7, 7. Jesús sagdi: bidjid, og mun ydur gefast; leitid, svo munud þjer finna; knýid á, og mun fyrir ydur upplokid verda.

b) Sérilagi egum vér ad bidja Gud um þau andlegu gædi, sem tilheyra vorri sáluhjálp, þad er: um fyrirgéfningu syndanna, styrk í trúuni og voninni, vit og krapta til ad breyta eptir hans vilja, megn ad standa á móti øllum synd samlegum tilteyglingum, um góda samvitsku og sáluhjálpleg endalok.

Luc.

Luc. 11, 13. Jesús sagdi: ef þjer, sem vondir erud, kunnid ad gefa børnum ydar gódar gáfur, hvørsu mikln fremur mun Fadirinn á himnum gefa þeim heilagann Anda, sem hann þar umbidja, Col. 1, 9-11.

Merk: a) Þegar Jesú Lærisveinar beiddu hann ad kenna ser ad bidja, sagdi hann: Þegar þjer bidjid, þá segid: Fadir vor! þú sem ert á himnum; helgist þitt nafn; tilkomi þitt ríki; verdi þinn vilji, svo á jørdu sem á himni; gef oss i dag vort daglegt braud; og fyrirgef oss vorar skuldir, svo sem vjer og fyrirgefum vorum skuldunautum; og leid oss ecki í freistni; heldur frelsa oss frá illu; þvíad þitt er ríkid og máttur inn og dýrdin, ad eilífu, Amen!

b) Drottinleg bæn, Fadir vor! inniheldur í stuttu máli allt þad, sem hvør ein kristin manneskja ætid á ad bidja um og afbidja, bædi í tilliti til sinnar andlegrar og líkamlegrar velferdar. Þessi bæn kann, í stuttu máli, þannig ad útskírast:

Fadir vor! þú sem ert á himnum; þad er: þú allra hæsti, eilífi og almáttugi veraldarinnar Skapari og Herra, sem elskar þínar manneskjur lángtum heitar, en bestu fedur á jørdunni geta elskad børn sín.

Helgist þitt nafn; þad er: kenn þú oss ad andsóua í verkunum, ad vjer vidurkjennum þig eins fullkominn og ákollunarverdugann, eins og þú i sannleika ert.

Til-

Tilkomi þitt ríki; það er: lát þíns Sonar Jesú Krists náðugu stjórnun, syndugu mannkyni til upplýsingar og frelsis, meir og meir útbreiðast, og koma til góðs á jörðunni.

Verði þinn vilji, svo á jörðu sem á himni; það er: gef oss náð, að vjer sjáum hjer á jörðunni, vjer seum reiðubúnir og oss lángi til að hlýða þjer í öllum hlutum, eins og þínir þjenarar hlýða þjer á himnum.

Gjef oss í dag vort daglegt brauð; það er: gef oss svo mikið af tím ánlegum gæðum til lífsins nauðþurftar, dag hvern, eins og þú sjer að oss er gagnlegast til vorrar andlegu og eilífu velferðar.

Fyrirgef oss vorar skuldir, svo sem vjer og fyrirgefum vorum skuldunautum; það er: straffa oss ekki eptir maklegleikum, heldur fyrirgef oss, vegna þíns Sonar, vor mörgu misbrot, eins og vjer viljum gjarnsamlega fyrirgefa þeim, sem oss á móti brjóta.

Og leið oss ekki í freistni; það er: lát oss aldrei yfirbugast af þeim freistíngunum, sem að oss koma, heldur hjálpa oss til að stríða á móti þeim.

Heldur frelsa oss frá illu; það er: varðveit oss frá öllu því, sem gjetur orðið oss að skaða á sálu eður líkama.

Því að þitt er ríkið og máttur og dýrðin, að eilífu; það er: þú einn ræður fyrir allri vorri velferð, og ert máttugur til

 að

ad ebla hana, því skal líka lof og heidur fyrir allt þad góda, sem vjer hljótum, tilheyra þjer einum.

Amen! þad er: já, vissulega mun þad skje, sem vjer bidjum þig um, og þú sjer ad oss er þjenanlegt.

c) Ef vjer egum ad bidja med Bæninni: Fadir vor! oss til gagns, þá verdum vjer, med stødugum eptirþánka, gæta ad meiningunni í ordunum, og lesa þau med hjartanlegri andakt. Þad er hneixlanleg misbrúkan ad lesa þessa bæn án umþenkingar og fyrir sidasakir; nær væri ad lesa hana sjaldnar, svo Andaktin betur gæti vidhaldist, Matth. 6, 7. 8.

§. 4. Þegar vèr bidjum Gud um tímanleg gædi, egum vèr ad fela hans þægilegum vilja á vald, ad hvad miklu leiti hann vilji bænheyra oss, þar þad máske gètur verid sjálfum oss eda ødrum til gagns, ad vèr ødlumst ecki þad, sem vèr bidjum um, eda vèr kynnum vanbrúka þad, sjálfum oss eda ødrum til skada.

Rom. 8, 26. Vjer høfum ecki vit á, hvørs vjer egum ad bidja, Jak. 1, 2.

Jak 4, 3. Þjer bidjid og ødlist ecki, af því þjer bidjid illa, sem er til þess, ad þjer sóid því ydar bølist.

Merk;

Merk: Þegar hinn veiki, sem biður um heilbrygði, eda hinn fátæki, sem biður um ad ser vegni betur, og fleiri þeßháttar, ecki bænheyrast, mega þeir þar fyrir ecki þenkja, ad bænin se gagnslaus. Þeir ega miklu heldur vera fullvißir um, ad Gud, eptir hans speki, sjer þeim þienanlegra, ad þeir fái ecki þad þeir umbidja, ega þeir því, engu ad síður, ad halda áfram med bæninni til Guds, svo ad þeir venjist því meir til ad hlýda honum, og gefa sig undir hans vilja.

§. 5. Vèr egum ad bidja fyrir vorum náúnga med sömu alvörugefni og sama hjartalagi, eins og fyrir sjálfum oss, til merkis um, ad vèr elskum hann, og einlæglega samgledjumst af hans velgengni, og [illegible] ecki láta vorn góda tilgáng verda [illegible] launadann.

1 Tím. 2, 1 · 3. Fyrst af öllu er, ad eg áminni ad gjörast skuli afbeidni, bænir, fyrirbænir og þackargjördir fyrir öllum mönnum, fyrir Kongunginum og öllu Yfirvaldi, svo vjer mættum hafa spakt og rólegt líferni, med allri gudrækni og sidsemi, því þad er gott, þartil einnig Gudi þócknanlegt, Jak. 5, 16.

§. 6. Ef vèr egum ad gjöra bed d med þeim hætti, sem Gudi þócknast, megum vèr ecki láta vorar hugrenningar hvarfla hingad og þángad, heldur snúa þeim til

 Guds

Guds ei:üngis, og med audmÿkt framm bera vorar naudsynjar fyrir hann, med stödugu trausti á Jesú Kriste forþénustu og fyrirbón, án þess ad reida oss á vort eginn verdugleika; þaradauki egum vér ad útrhima úr hjarta voru öllu hatri til náúngans.

Joh. 17, 20. Jesús sagdi í sinni bæn til síns Himneska Födurs: eg bid ecki einúngis fyrir þessum mínum Lærisveinum, heldur og einnig fyrir þeim, sem munu trúa á mig fyrir þeirra ord, Róm. 5, 1.

Marc. 11, 25. Jesús sagdi: nær þjer standid og bidjist fyrir, þá fyrirgefid, ef þjer hafid sök móti nockrum, svo ad ydar Fadir, sem er á himnum, fyrirgefi ydar brot.

Merk: a) Sá kristinn, sem er vel uppfrædd-ur, bidur hellst med sínum egin ordum, sem ecki munu skorta hann, þegar hann hugsar alvarlega eptir því, sem hann ætlar ad bidja um, og þá hjartad kjemst vid; en ef vjer viljum brúka þær bænir, sem adrir hafa gjort, egum vjer ad velja þær, sem ega vid vort ástand, og innihalda þad, sem vjer þá serilagi þurfum ad bidja um.

b) Formálinn fyrir framan Drottinnlega Bæn í Frædunum, talar um þad Trúnadar-traust, sem vjer egum ad hafa til Guds, þá vjer bidjum. Í fjórdu Bæninni er talad um tímannlegu velgjorningana, og í fimtu Bæninni um þá andlegu, sem vjer egum hellst ad bidja um.

um. Í sjöundu Bæninni er líka gjetid um hid illa, sem vjer egum einkum ad afbidja.

### 3.) Skírnar Sakramentid.

§. 1. Skírnin er þad heilagt verk, sem Kristur hefir bodid ad brúka vid þá, sem ætla ad játast undir hans lærdóm, og má annadhvert dýfa þeim í vatn, eda ausa því yfir þá, í nafni Fødursins, Sonarins, og þess heilaga Anda.

Matth. 28, 18.20. Jesús sagdi: allt vald er mjer gefid á himni og á jördu. Fyrir því farid og gjörid allar þjódir ad mínum lærisveinum, og skírid þær til nafns Fødursins og Sonarins og þess heilaga Anda, og kennid þeim ad halda allt hvad eg baud ydur, og sjá! eg er med ydur ætíd til veraldarinnar enda.

Merk: Í heitari löndunum má, án heilsuspillirs, dýfa þeim nidur í vatn, sem skírast ega, en hjer í þessum kaldari löndum verdur, heilsunnar vegna, einúngis ad yfirausa þá vatni, eins og brúkad var í hinni fyrstu kristni, þegar einhverr var skírdur á sinni sóttarsæng.

§. 2. a) Med skírninni verdur manneskjan limur kristilegrar kirkju, til ad verda, med heilags Anda samverkandi náð, hluttakandi í þeim ypparlegu velgjörníngum, sem Kristur hefir oss útvegad.

Gal. 3, 26. 27. Þier erud allir Guds børn af trúnni á Jesú Krist; því svo margir af ydur, sem erud skírdir til ad trúa á Krist, þier hafid íklædst Kristi.

Tit. 3, 5. Eptir sinni miskunsemi hefr Gud oss hólpna gjørt, med endurgetningar laugiñi og endurnýúngiñi, sem skedur af heilögum Anda.

b) Gud veitir oss í skírninni adgáng til syndanna fyrirgéfnlngar fyrir Krists sakir, og gjörir oss, svo sem sín elskuleg børn, hluttakandi í sinni fedurlegri elsku, opnar oss einnig veg til gledi og farsældar í tilkomanda eilífu lífi.

Mark. 16, 16. Hvørr, sem trúir og verdur skírdur, sá mun hólpinn verda, en hvørr, sem ekki trúir, sá mun fordæmast.

§. 3. Med ad skírast í nafni Fødursins, Sonarins og þess heilaga Anda, verdum vèr skuldbundnir til ad trúa á Fødur, Son og heilagann Anda, sem þann einasta sanna Gud, er alleinn rædur fyrir vorri tímanlegri og eilífri endurlausn og velferd, svo ad vier skulum dýrka hann einann og treysta honum einum, líka heidra og elska hann, og hlýda honum af øllu hjarta En hèraf fylgir þá einnig, ad vèr skuldbindum oss til ad strída á móti øllum vondum girndum, og taka

oss

oss vara fyrir ad brjóta hans bodord vísvitandi, og til ad lifa eptir Jesú Krists lærdómi í sönnum Guds óttá.

1. Pet. 3, 21. Skírnin er ecki burttekt saurinda af líkamanum, heldur sáttmáli gódrar samvitsku vid Gud.

Róm. 6, 4. Svo erum vjer þá med Kristi grefradir í skírninni til daudans, ad líka sem Kristur er uppvakinn frá daudum, fyrir dýrd Födursins, svo egum vjer ad gánga í nýu liferni.

§. 4. Kristur vill, ad allir menn verdi í skírninni limir sinnar kristilegu kirkju, þar þeir eru endurkeyptir med hans dauda, og þess vegna ega líka smábørnin, eptir hans vilja, ad skírast.

Marc. 10, 14. Jesús sagdi: leyfid smábørnum til mín ad koma, og hindrid þau ecki þarfrá, þared Guds ríki heyrir þvílíkum til.

Merk: Þau børn, sem deya ádur enn þau hljóta skírn, koma samt í Guds ríki, þvíad Kristur hefir endurleyst þau, og þeim verdur ecki tilreiknud forsómun á skírninni. En hafi foreldrar eda vandamenn af ásettu haldid barninu frá skírninni, þá verdur þad þeirra ábyrgdarhluti, vegna þess þeir þar med syndu, ad þeir vyrdtu litils Krists bodord.

§. 5. Í Konfirmationinni egum vér sjálfir ad itreka, og opinberlega endurnýa þad heilaga loford, er adrir gjerdu

fyrir vora hend, þegar vèr hlutum Skírn, sem er: ad vèr viljum afneita ellum ógudslegleika, trúa á Gud Fødur, Son og heilagann Anda, einnig audsýna vora trú med gódverkunum. Til þessa lofords egum vèr ætíd, alla vora lifstíd, ad muna, og láta þad sífeldlega minna oss á þá tryggd og hollustu, sem vèr erum Gudi um skyldugir, svo vor trú og rádvendni ecki tapist af holdlegu gjálfsi.

Opinb. 2, 10. Jesús sagdi: vertu trúr allt til daudans, svo skal eg gefa þjer lífsins kórónu.

Eph. 5, 25-27. Kristur elskadi søfnudinn, og gaf sig sjálfann út fyrir hann, til ad helga hann, þá hann med ordinu hreinsadi hann i vatnsbadinu, svo ad hann gæti búid til handa sjálfum ser dýrdlegann søfnud, sem hefdi engann blett nje hrucku eda neitt þeßháttar, heldur se heilagur og óstraffanlegur.

Merk: Svo opt, sem vjer endurminnumst Skírnarinnar, egum vjer ad uppørfast til nýrrar árvekni og ástundunar, i ad laga vorn lifnad eptir Krists lærdómi. Þess vegna, þó skírnin sjálf egi ecki ad itrekast, er hún samt sífeldt ávaxtarsamt medal handa oss, til ad efla vora dygd og gudhrædslu.

Um Skírnina er talad i fjórda Parti Frædanna.

4.)

## 4.) Qvøldmáltídar Sakramentid.

§. 1. Sú heilaga qvøldmáltíd er þad heilagt ve:k, er Jesús Kristur inn-setti, med hvørju kristnir menn eiga ad eta braud og drecka vín, og þar med verda hluttakandi í Jesú Krists líkama og blódi, sem oss ad var til fridþægingar fyrir þá, og vegna þeirra synda.

Matth. 26, 26. Marc. 14, 22. Luc. 2:, 19. 1 Cor. 11, 23. Vor Herra Jesús Kristur, á þeirri nótt, sem hánn svikinn var, tók hann braudid, gjørdi þackir, braut þad, gaf sínum Lærisveinum og sagdi: takid og etid, þad er minn líkami, sem fyrir ydur verdur gefinn; gjørid þad í mína minníngu. Sømuleidis eptir qvøldmáltídina, tók hann kaleikinn, gjørdi þackir, gaf þeim hañ og sagdi: dreckid allir hjeraf, þad er kaleikur ens Nýa Testamentis í minu blódi, sem fyrir ydur úthellist til fyrirgefníngar syndanna; gjørid þetta, svo opt sem þjer þad dreckid, í mína minníngu.

§. 2. a) Med innsetníngu þeirrar heilögu qvøldmált:dar, hafdi Jesús þann tilgáng, ad styrkja kristna menn í trúñi, og uppørfa þá til kostgæfilegrar ástundunar í kristilegu lserni.

Luc 20, 19. Jesús sagdi: gjørid þad í mína minníngu.

b) Þeg-

b) Þegar vèr medtøkum qvøldmál-tídar-sakramentid, egum vèr ad minnast Jesú Krists fridþægandi dauda, oss til huggunar og fullvissu um, ad allar vorar syndir sèu oss hans vegna fyrirgèfnar, ef vèr einúngis tileinkum oss hans forþènustu, med sannri ydrun og lifandi trú.

Lúc. 22, 19. 20. Jesús sagdi: Þetta er minn líkami, sem fyrir ydur verdur gefinn; þessi kaleikur er þad nýa Testamenti í minu blódi, sem fyrir ydur úthellist.

c) Vèr egum ad láta þá heiløgu qvøldmáltíd uppørfa oss til, ad vèr, med innilegasta þakklæti, metum mikils þad, ad Jesús Kristur leid þángar qvalir, og fórnfærdi sig sjálfann í vorn stad, og med því ad neyta opinberlega þessarar máltídar, egum vèr, honum til vegsemdar, audsýna, ad vèr viðurkénnum, hann sè vor Frelsari og Sáluhjálpari.

1 Cor. 11, 26. Svo opt sem þier etid af þessu braudi, og drekkid af þessum kaleik, skulud þier kunngjöra dauda Drottins þángad til hann kemur.

d) Í því vèr medtøkum braudid og vínid, komumst vèr í náqvæmustu sameiníngu med Jesú Kristi vorum Frelsara, sem gjörir oss hluttakandi í sínum alls-

raheilagasta líkama og blódi, og þar med innsiglar, ad vèr sèum medteknir til þess nýa nádar sáttmála, hvørn hann, svo sem vor medalgángari, hefir samid millum Guds og vor

1 Cor 10, 16. Sá blessadi kaleikur, hvørn vjer blessum, er hann ecki hlutteknîng í Krists blódi? þad braud, sem vjer brjótum, er þad ecki hlutteknîng í Krists líkama?

Ebr. 8, 6. Kristur hefir ødlast svo miklu ædra embætti, sem hann er medalgaungumadur betri sáttmála, hvør eiñig stendur á betri fyrirheitum.

e) Þegar vèr minnumst þeirrar óransakanlegu Jesú Krists elsku, sem í qvøldmáltídinni verdur oss fyrir sjónir sett, á heitasta elska aptur á mét uppqveikjast í vorum hjørtum; þad á líka ad kuyja oss til ad elska hvørr annan innbyrdis, eins og þá brædur, hverja Kristur hefir allasamann endurleyst.

Joh 13, 35. Þaraf skulu allir þeckja, ad þjer erud mínir lærisveinar, ef þjer elskid hvørr aññ.

1 Cor. 10, 17. Þad er eitt braud, og vjer erum margir einn líkami; þvi vjer erum allir hluttakandi í því eina braudi.

§. 3. Þad er naudsynlegt ad vèr prófum sjálfa oss, hvørt vèr getum, svo sem verdugir gèstir, gengid til Guds bords,

þvi

því þeir einir hafa gagn af sakramentinu, sem meðtaka það verðugiega, en hinir óverðugu ávinna sér þar á móti Guðs strangu reiði.

1 Cor 11,27-29. Hvörr, sem etur af þessu brauði, eða dreckur kaleik Drottins óverðugur, sá misbrýtur móti Drottins líkama og blóði; en hvörr einn prófi sig sjálfann, og eti svo af brauðinu og drecki af kaleiknum.

§. 4. Þegar vér viljum réttilega prófa sjálfa oss, þá egum vér:

1) Að ransaka vort hjartalag í tilliti til Kristís og hans friðþægingar, svo vér gétum vitað, hvört oss, svosem yðrandi manneskjum, sýnist mikils umvarða að finna náð hjá Guði einum, vegna Jesú Krists, og með trúnni á hann.
2) Egum vér að ransaka sjálfa oss, hvört það sé vor einlægur ásetningur, hér eptir með alvörugéfni, að stríða á móti öllum syndsamlegum tillöckunum, og af alúð vilja fylgja Jesú lærdómi, svo oss fari meir og meir fram í ráðvendni og sönnum Guðs ótta.

Sérhvörr sá gengur óverðuglega til Guðs borðs, sem eptir það hann þannig hefir

hefir prófad sig náqvæmlega, finnur ecki hjá sér þad hugarfar, ad hann vilji leita nádar hjá Gudi, med trúnni á Krist, hafa einlægann ásetning ad betra sig, og láta sér fara fram í dygd og Guds ótta.

1 Cor. 2, 2. Eg tók fyrir mig, ad fara ecki med neinn annann lærdóm, þegar eg var hjá ydur, enn um Krist og hann krossfestann.

2 Cor. 5, 14. 15. Krists kjærleiki þvingar oss, med því vjer álýktum svo, ad ef einn hefir dáid fyrir alla, þá se svo gott, sem þeir seu allir daudir; nú hefir hann fyrir alla dáid, svo ad þeir sem lifa, skulu hjer eptir ecki lifa sjálfum ser, heldur honum, sem er fyrir þá dáinn og upp aptur risinn.

Merk: a) J Skriftastólnum verdum vjer serilagi áminntir og uppörfadir til ad prófa náqvæmlega sjálfa oss, þegar Skriftafadirinn, med sínum gudlegum umtölum og áminningum, minnir oss á skyldu vora vid Krist, og brýnir fyrir oss, ad vjer egum sífeldlega kappkosta, ad vera dygdaudugir.

b) Þad stendur engannveginn í Prestsins valdi, ad fyrirgjefa syndirnar, því þad er Guds alleina; en Presturinn getur einúngis, eptir Guds fyrirheitum, tilsagt oss og bodad: ad Gud hafi vissulega fyrirgefid oss vorar syndir, vegna Jesú Krists, ef vjer ydrumst þeirra af hjarta, og trúum á Krist; þess vegna hafa ydrunarlausir eckert

gagn af ad gánga til skrifta og altaris, heldur verdur þeirra ábyrgdarhluti því þýngri, þar þeir vanbrúka þetta til ad hylja med vondsku sína, og ad gjöra gis ad Guds ordi.

Um þá heilögu qvøldmáltíd er talad í fimta parti Frædanna.

# Attundi Kapítuli.
## Um Mannanna sídasta Ástand.

§. 1. Þó daudastundin sé øllum óviss, þá er samt víst, ad allir menn, sem á jördunni lifa allt til veraldarinnar enda, eiga einusinni ad deya, því allir þeir eru syndarar.

Róm. 5, 12. Syndin er af einum manni komin í heiminn, og daudinn vegna syndarinnar, þannig hefir daudinn innþreyngt sér til allra manna, því þeir syndgudu allir.

Merk: a) Þad er mjøg hættulegt og heimskulegt, ad skjóta á frest sínum undirbúníngi til daudans, vegna þess sú manneskja kannskje sé úng, eda med gódri heilsu, og kenni sér einkis meins, því daudinn kippir mørgum burtu á besta aldri, svo veit heldur enginn, hvort daudinn muni koma hastarlega ad, edur

med

med addragaunda, engiñ getur heldur fyrisagt, hvert hann muni sá særi á ad undirbúa sig, þegar hann á hjer vid ad skiljast, þvi særstir eru svo oruggir á daudastundunni, ad þeir geti, med alvorugefni og stodugri umþenkingu, hugsad um sín sáluhjálpar efni.

b) Á Sóttarsænginni er tíminn ofnaumur til ad sá vidbjód á þeim löstum og hjegóma elsku, sem optrudu syndaranum, medan hann var heill og ósjúkur, frá ad trúa á Jesú Krist og elska hann, hugarfarid umbreytist ecki heldur af því, þó manneskjan, medan háskinn vofir yfir, fyllist upp af hrædslu og qvída fyrir eymd og qvøl um alla eilífd; hví vjer sjáum allt of opt ad þeir, sem med miklu hugarángri lofa bót og betrun á sóttarsæng sinni, [illegible] sem þeir eru ordnir heilbrygdir, aptur til síns fyrra syndsamlega [illegible] og sýna þarmed, ad þeirra ángur hafi ecki komid af einlægu hjarta, og ad lystin til þess vonda er af laungum vana ordin svo rík í sálunni, ad hún getur ecki ordid nidurkjæfd, nema med lángvarandi strídi og baráttu.

c) Þar fyrir er rádlegast ad búa sig undir daudann frá únga aldri, og strída strax á móti øllum íllum girndunum, undir eins og þær taka til ad hreyfa sér, en kappkosta þarámót, ad komast, med lifandi Trú, í sameiningu vid Krist siñ Endurlausnara, og fylgja hans eptirdæmi; því eins og ógudlegir forherdast meir og meir, svo þeir, med því ad halda áfram í

 synd-

syndunum, hafa enga dygdar og guðhræðslu-tilfinningu, svo styrkjast hinir guðhræddu daglega, með samverkandi náð heilags Anda, af að ydka sig sífeldlega í guðhræðslu, og þannig undirbúa handa sér frið og fögnuð í samvitskunni, sem er sú stærsta sælseld í þessu lífi; en óguðlegir aptur á mót, baka sér með Löstum sínum stærstu qvöl og órósemi. Þegar dauðinn aðkemur, eru þeir guðhræddu hughraustir og óqvíðnir, en hinir óguðlegu skjelfast, og annaðhvert falla í örvæntingu, ellegar með þánkaleysi sökkva niður í blinda forherðíngu.

§. 2. Sálin, sem er ódauðleg, fer strax, sem hún er skilin við líkamann, til síns samastaðar, annaðhvert í eilífa gleði eða eilífar qvalir, eptir því, sem manneskjan hefir lifað í þessum heimi vel eða illa.

Luc 23, 43. Jesús sagði við yðrandi ræníngjan á krossinum: sannlega segi eg þjer, í dag skaltu vera með mjer í Paradís, 2 Cor. 5, 8.

Joh. 5, 24. Jesús sagði: Hverr sem heyrir mín orð, og trúir þeim, sem mig sendi, sá hefir eilíft líf, og hann kemur ekki til fyrirdæmíngarinnar, heldur hefir hann farið frá dauðanum til lífsins.

Luc. 16, 22. 23. Jesús sagði í eptirlíkíngunni: sá fátæki dó, og var borinn af Englum í faðm Abrahams. Hinn ríki dó líka, og var grefraður; en sem hann hóf upp sín augu í helvíti, var hann í qvölunum.

§. 3.

§. 3. Að effsta degi skal líkaminn uppvekjast úr duptinu, og samtengjast aptur sálunni, verdur hann þá óforgengilegur.

Joh. 5, 28. 29. Jesús sagdi: sá tími mun koma, á hvørjum allir þeir, sem í grøfunum eru, munu heyra Guds sonar raust, og þá munu þeir, sem gott hafa gjört, upprísa til sælu, en hinir til fyrirdæmingar, sem illt hafa gjört.

Post. Gb. 24, 15. Postulinn Páll sagdi: eg hefi þávon til Guds, að á eptir muni koma upprísa framlidinna, bædi rettlátra og ránglátra.

1 Cor. 15, 42. Líkama þeirra sem deya, verdur rotnanlegum nidursád, en hann mun upp aptur rísa óforrotnanlegur. Honum verdur audvyrdilegum nidursád, en hann mun upprísa vegsamlegur. Honum verdur nidursád veikum, en hann mun upp aptur rísa kröptugur. Náttúrlegum líkama verdur nidursád, en upp aptur mun rísa andlegur líkami.

§. 4. Þær manneskjur, sem verda lífs á jørdunni þegar dómsdagur kémur, deya ad sönnu ecki svo ad sál og líkami skiljist að, en þeir munu samt umbreytast, svo að þeirra forrotnanlegi líkami verdur á augabragdi óforgengilegur; engin manneskja veit hvenær þessi dagur muni koma.

1 Cor. 15, 51. 52. Sjá! eg segi ydur leyndan dóm; vjer munum ecki allir sofna; en allir munum vjer umbreytast, og það skyndilega á einu augabragdi, vid hinn sídasta lúdurhljóm. Því

lýdurinn mun gella, og hinir framlidnu munu uppríſa óſorgengilegir, en vjer munum umbreytaſt.

§. 5. Kriſtur mun, med dýrdlegum hætti, opinberlega dæma allar manneſkjur eptir uppriſuna, og auglýſa fyrir ællum, ad gudhræddir eru verdugir til ad lifa í vegſemd og ſægnudi eiliflega; en ógudlegir þar á móti munu verda því ſtraffi undirkaſtadir, ſem þeirra illverk hafa tilunnid.

Poſt. Gb. 17, 31. Gud hefir tilſett viſſan dag, á hværjum hann ætlar ad láta þann mann, ſem hann hefir þartil ſett, dæma rett alla jardarinnar innbyggendur, þarum ſannfærir Gud alla, med því hann uppvakti þann mann frá daudum.

2 Cor. 5, 10. Vjer egum allir ad opinberaſt fyrir Kriſts dómſtóli, ſvo ad hværr einn úr býtum beri eptir því, ſem hann hefir adhafſt í likamans lifi, hvǿrt ſem þad hefir verid gott eda illt.

2 Theſſ. 1, 7. 8. Þegar Drottinn Jeſús opinberaſt af himni, med ſínum Engla her og logandi eldi, til ad hegna þeim, ſem ecki vildu adhyllaſt Gud, og ſtraffa þá, ſem ecki vóru hlýdugir Evangelió vors Drottins Jeſú Kriſts.

Merk: Serhvær ſála dæmiſt ſtrax, eptir ad hún er farin út af likamanum, og verdur henni víſad annadhvǿrt til eilífrar gledi eda eilífra qvala, Ebr 9, 27. En á ſídaſta degi, þegar ſálirnar eru ad nýu ordnar ſamtengdar likomunum, mun Kriſtur, ſvo ſem Kóngur

og

og Herra, samansafna þeim, svo hans rettvísi dómur verdi þeim øllum undir eins kunnur, til vitnisburdar um hans stjórnun án manngreinar álits, og svo þeir megi sjálfir finna ad þeim se enginn órettur gjørr. Matth. 25, 31 — 46. Róm. 2, 16.

§. 6. Eilíft líf er þad dýrdlega og sælufulla ástand, í hvørju gudhræddir munu æfinlega lifa, í gledilegustu sambúd med Jesú Kristi, gódu Englunum og øllum heiløgum, án þess ad áreitast lengur af nockurri synd eda sorg, en njóta óumrædilegrar huggunar, fridar og fagnadar af ad skoda Guds dýrd, sem audsýnir sig í hans mørgu dásemdarverkum, þar þeir einig lófa og vegsama Gud hvørr med ødrum, og æfa sig í dygdinni og kjærleikanum, eptir Guds vilja.

Matth. 25, 34. Jesús mun segja vid þá: komid hingad, þjer blessadir af mínum Fødur! eignist þad ríki, sem ydur er fyrirbúid frá veraldarinnar upphafi.

Joh. 17, 24. Jesús sagdi í bæninni til síns himneska Fødurs: Fadir! eg vil ad þeir, sem þú gafst mjer, skuli vera hjá mjer hvar sem eg er, svo ad þeir sjái mína dýrd, sem þú gafst mjer.

Ebr. 12, 22. Þjer komid til borgar Guds lifanda, til þeirrar himnesku Jerúsalem, og til margfjølda margra þúsund Engla.

Opinb. 21, 4. Guð mun þeirra øll tár af þeirra augum, og dauðinn mun ecki lengur vera til, ecki harmur nje qveinan, nje heldur pína, mun lengur til vera.

Róm. 2, 10. Heidur, vegsemd og frid skal hvørr sá ødlast, sem gott gjørir.

§. 7. Fyrirdæmingin, sem annars kallast eilífur daudi, er það qvalafullt og vonarlaust ástand, í hvørju óguðlegir sárlega qveljast, af þeirra nagandi samvitsku, og hvar þeir, í hinna óguðlegustu vondu anda og illra sálna sambúd, finna tilhriggilegustu verkana af sínum fyrri illgjørdum, þared þeirra drottnandi lystir, hvørjum þeir þá ecki gèta fullnægt, undireins auka þeim qvøl og pínu.

Matth. 25, 41. Jesús mun segja til þeirra: farid frá mjer, þjer bølvudu! í þann eilífa eld, sem fyrirbúinn er Djøflinum og hans árum.

Marc. 9, 48. Jesús sagdi: þeirra ormur deyr ecki, og þeirra eldur sloknar ecki.

Joh. 3, 36. Hvørr sem ecki trúir Syninum, skal ecki sjá lífid, heldur varir Guds reidi yfir honum.

Róm. 2, 9. Hrellingar og harmqvæli munu koma yfir allra þeirra manna sálir, sem illsku drýgja.

§. 8. A sídasta mun vor heimur forgánga, med øllum sínum gædum; en guð-

hrædd-

hræddir munu ætíd vera hjá Drottni, og med þessari von skulum vér hughreysta hvørt annann.

2 Pet. 3, 10. Dagur Drottins mun koma sem þjófur á nóttu, á hvørjum himnarnir munu med miklum gný forgánga, en høfudskepnurnar í eldi brádna, og jørdin og þau verk, sem á henni eru, munu uppbrenna, 1 Theff. 4, 17. 18.

---

Gudi sé lof og dýrd ad eilífu,
Amen!

---

# Stutt Agrip
## af Høfudlærdómum kristilegra Trúarbragda.

---

1. Einn einasti sannur Gud er til, sem hefir skapad heiminn, vidheldur og stjórnar honum, til gagns og gledi øllum sínum lifandi skëpnum, en sérílagi þeim skynsemdarfullu til velferdar.

2. Þessi Gud hefir allrastærstu eginlegleika, og er sá allrafullkomnasti í makt, speki, gædsku, heilagleika og réttlæti.

3. Heileg Ritníng, sem inniheldur Guds vilja og rádstefun, ad svo miklu leiti, sem þau sérílagi eru manneskjunum vidkomandi, kénnir oss ad dýrka Gud, sem Fødurinn, Soninn og þann heilaga Anda, er allir hafa eina Veru og sømu guddómlegu tign.

4. Manneskjan var í upphafi, þegar Gud hafdi skapad hana, saklaus og gód, en hún spillti sér sjálfri, med því ad brjóta fúsviljuglega móti Guds løgmáli; þaraf vard hún syndug og óhæfileg til ad taka á móti þeirri sælu, sem Gud hafdi henni ætlad.

5. Jesús Kristur, sem er eingétinn Sonur þess himneska Fødurs, vard manneskja, svo hann gæti endurleyst syndugt mannkyn frá þeirri eymd, sem þad hafdi med syndinni steypt sér í. Hann sýndi mønnunum þar fyrir med sinni kénníngu, hvad Gud af sinni miskunarfullu elsku hefdi ályktad um þeirra frelsun, útvegadi þeim adgáng til hennar, med sinni frívilljugu pínu og dauda, og stadfesti líka med sinni upprisu og himnafør þá vissu, sem hann hafdi gefid þeim um eilíft líf. Nú stjórnar hann øllum heiminum ásamt Fødurnum, med guddómlegri makt og veldi, og ber sérílagi umhyggju fyrir sinna endurleystra eilífri sáluhjálp.

6. Sá

6. Sá heilagi Andi leidir oss med Krists lærdómi til afturhvarfs frá syndunum, og til trúarinnar á Krist, svo vorar syndir verdi oss fyrirgéfnar. Hann hjálpar oss einnig til betrunar og framfara í dygd og gudhrædslu, svo vér getum ordid hluttakandi í þeirri sáluhjálp, sem Kristur hefir oss útvegad.

7. Vor trú á Jesú Krist, á ad sýna hvert hún sé kreptug med því, ad vér lifum eptir vorri skyldu bædi vid Gud, vid sjálfa oss og vid náúngann, eptir því, sem Gud og Kristur hafa skipad oss í heilagri Ritníngu.

8. Gudi erum vér skyldugir um, ad tilbidja, óttast og elska hann, hlýda honum og reida oss á hann einann, lofa hann, þacka honum og ákalla hann, einnig taka oss vara fyrir ellu því, sem í nockurn máta stríðir móti þeirri vyrdingu, sem vér egum honum ad veita.

9. Sjálfum oss erum vér skyldugir um, ad bera tilbærilega umhyggju bædi fyrir sálu vorri og líkama, sem og vorri tímanlegri velferd, en þó sérílagi gæta vor, ad varast allt illt og syndsamlegt háttalag og vana, svo samvitskan hvorki ofþýngist, né vér lídum tjón á vorri sennu velferd; vér erum þarad-

mót

mót fullvißir um Guds náð, og gêtum ætíð med ſonarlegu trúnadartrauſti leitad hælis hjá honum, ef vêr kappkoſtum ad verda gódar og dygdaudugar manneſkjur, eptir Jeſú lærdómi og eptirdæmi.

10. Náúnganum erum vêr ſkyldugir um, ad elſka hann eins og ſjálfa oſs, og þeſsvegna vera ætíd reidubúnir til ad gjöra þad ſama vid hann, ſem vêr kjóſa vildum, ad hann í líku tilſelli gjördi vid oſs; en aldrei taka oſs nockud þad fyrir hendur, ſem í einhvern máta kynni ſkêrda hans tímanlega eda eilífa velferd.

11. Vêr egum ad hafa Guds ord ydduglega um hönd, þar þad er hid beſta medal til vorrar upplýsingar og helgunar, líka egum vêr yduglega ad vegſama og ákalla Gud, ſvo hugur vor þarmed uppfylliſt af elſku til Guds, og laungun eptir ad gjöra hans vilja.

12. Vêr egum ad leggja allt kapp á, ad vyrda mikils og halda vorn ſkírnarſáttmála, hvi med ſkírninni heſir Kriſtur látid gjöra oſs ad limum ſinnar kirkju, og gêfid oſs rêtt til ſinna dýrmætu velgjörnínga. Í qvöldmáltídar Sakramentinu gjörir Jeſús

Kriſt-

Kristur oss hluttakandi í sínum líkama og blódi, til fullvissu um, ad vorar syndir séu oss fyrirgéfnar, ef oss af hjarta ángrar, ad vér hefum drýgt þær, og einsetjum oss ad láta oss fara fram, med trúuni á hann, í rádvendni, og í vorum kristinndómi. Þar fyrir egum vér líka ad brúká þetta sakramenti med hjartanlegri andakt, eptir ad vér ádur hefum náqvæmlega og alvarlega prófad sjálfa oss.

13. Gudhræddra Sálir koma eptir daudann til eilífs lífs og eilífrar sælu í samfélag med gódum Öndum, hjá Kristi sínum Endurlausnara; en þá ógudlegir deya, fara þeir í samfélag vondra anda, og hreppa þar qvalir og ángist, sem er maklegt straff fyrir þeirra illgjørdir.

14. Guds alvísa rádstafan, hefir tilsett vissann dag, á hvørjum þeir daudu líkamir munu úr sínu dupti uppvekjast, og samtengjast þeirra sálum, þegar Kristur mun láta þá alla mæta opinberlega fyrir sínum Dómstóli, og þá forgengur sú verøld, sem nú er.





# Vidbætir.

## Skrifta-málin.

Minn kjæri verdugi Fadir í Kristi! eg bid Ydur ad heyrá mína játningu, uppørfa mína andakt, hugga mig med Guds ordi, og boda mér, sañydrandi, qvittun synda minna í Jesú nafni!

Eg aum og syndug manneskja, játa almáttugum Gudi og øllum hans stórmerkjum, en afneita mínum og hans óvinum, synd og øllu ógudlegu athæfi. Líka medkenni eg fyrir Gudi og Ydur, minn kjæri Fadir! ad eg er sekur í óteljandi syndum í gégn mínum Gudi og Skapara; eg medkēñi: ad eg hefi hans vilja og bodord brotid í þaunkum, ordum og verkum, og þá skjaldan eg hefi rétt einlæglega viljad gjøra þad góda, hefir þó jafnan lodad vid mig þad hid vonda. Æ! þetta ángrar mig nú af hjarta, og vil því feginn allra minna synda ydrast, þeim afláta og vidsjá

med

med réttri trú og trausti til Guds miskunnar, fyrir Jesú Krist minn Lausnara. Eg endurnýa nú alvarlega þad heit og loford fyrir Guds alskygna augliti, og Ydur, ad láta mér deglega framfara í öllu gódu, eptir míns Frelsara dæmi, hvørs pínu og dauda endurminningu eg halda vil í dag. Gud vyrdist ad gifa mér sína nád þar til, í Jesú nafni, Amen!

## Bæn fyrir Skriftir.

Rannsaka mig, o Gud! og prófa mitt hjarta! gef mér ad þeckja, hvørt eg hefi einlæglega elskad þig, og hvert eg hefi alvarlega látid mér vera umhugad um minn kristindóm. Opna minn skilning, svo eg læri rétt ad þeckja sjálfann mig, ad eg ecki, mér til skada, dragi mig á tálar í því, sem mest árídur í innum sáluhjálpar efnum, né gjøri litid úr syndunum, sem þú hatar. Minn Gud! eg vil nú fyrir þínum alskygnu augum, rannsaka mitt hjarta og mitt framferdi; eg vil ecki fyrr neyta holds og blóds míns Frelsara, heldurenn eg med vissu géti sagt: ad eg sé hans sannarlegt barn, er framvegis

vilji leitast vid ad hlýdnast og breyta eptir honum. Gef mér hér til adstod þíns góda Anda, minn Gud! eg vil nú gánga fram fyrir þinn þénara, og medkénna þér og honum mínar syndir; æ! fyrir þér get eg ecki dulist, þad mun fyrir þínum dómi á sídan opinbert verda øllum englum og mønnum, hvørr eg er. Lát mig því, minn gódi Gud! ecki svíkja sjálfann mig, heldur med hræsnislausu hjarta framkoma fyrir þig í dag og ætíd, Amen!

---

## Bæn eptir Skriftir.

Lofa þú Drottinn, sála mín! nú em eg þess viss, ad Gud hefir, fyrir míns Frelsara Jesú Krists skuld, fyrirgéfid mér allar mínar syndir, þegar eg ad eins efni þau elsku og hlýdnis heit, er eg nú vann mínum Skapara; eg hefi ecki annad forþénad enn straff, en Gud hefir audsýnt mér nád; hans Sonur er á krossinum dáinn líka fyrir mig, svo eg mætti lifa. Nú vil eg framvegis, til þócknunar mínum Gudi og Frelsara, sem svo mikid elskadi mig, hata allar syndir, og í øllu ástunda, ad hlýdnast hans bodordum; þessu hefi eg nú lofad þér, minn

Gud og minn Frelsari! lát mig aldrei í minni umgengni gleyma þessu loforði, þá verð eg verdugur borðgéstur við míns Frelsara qvöldmáltíð í dag, og fæ þá fullvissu um minna synda fyrirgéfníngu, sem eg gét hyggað mig við í lífi og dauða, Amen.

---

## Bæn fyrir Bergíngu.

Svo syndugur, svo óverdugur sem eg er, svo vill þó minn Frelsari unna mér þeirrar náðar, að eg má nú framkoma að hans háborði, til að meðtaka þar hans líkama og blóð, svo sem pant og fullvissu um minna synda fyrirgéfníngu. Æ minn Gud! géf mér náð til að kannast við, hvað grunnlaus þessi elska er! Guðs Sonur, sjálfur Föðursins ljómi, hryggist fyrir mínar syndir allt í dauðann; Guðs Sonur sveitir blóðinu undir minni og alls heimsins syndasekt; Guðs Sonur lætur sig fjötra, spotta, húðstrýkja, þyrnum krýna og á krossinn négla, til að endurleysa mig, sem var hans óvinur; Guðs Sonur leggur lífið út fyri mig, er sekur var eilífs dauða. Hversu dýru verði em eg keyptur! hversu eldúngis heyri eg, með öllum kroptum sálar og lík-

ama, mínum Frelsara til, sem svo heitt hefir elskad mig! med þessum þankum vil eg gánga upp ad þínu bordi, minn guddóm-legi Ástvinur! þacklátur yfirvega þína ómetanlega elsku til mín, og uppørfa med henni sjálfann mig, til ad lifa þér hédanaf; styrk mig þartil, minn Gud! med þínum Anda, í Jesú nafni, Amen!

---

## Bæn eptir Bergíngu.

O! hvad mikid á eg ad þacka þér, minn Frelsari! eg gét ecki med ordum útmálad stærd þinnar elsku; eilíflega vil eg elska þig, þvi þú hefir óútsegjanlega elskad mig. Þér kesi eg ad þacka fyrirgéfníngu minna synda, Guds nád, rósemi samvitskunnar og eilíft líf. Lát mig aldrei gleyma þessum ómetanlegu velgjørdum; æ! hédanaf vil eg flýa og fordast allar syndir, svo eg missi ecki aptur þína nád. Mín æra, mín unadsemd, mín ædsta sæla sé sú: ad elska þig, hlýda þér, fylgja þínu dygda dæmi, og í øllum míns lifs athøfnum, ad gjøra þad sem rétt er og þér velþóckuast. Géf mér þar til nád þína og adstod, svo megna eg allt fyrir þig, Amen!

Morg-

## Morgun Bæn.

J þínu blessada nafni, o Jesú! byrja eg þenna dag; minn fyrsti þánki og mín fyrsta ydja skal vera ad lofa þig og þacka þjer, minn Gud! sem svo dásamlega hefir verndad mig í nótt frá ellu fári; þín náægd umkringdi mig, og þín forsjón vakti yfir mjer á medan eg svaf og vissi eckert af mjer, og nú hefir þú gefid mjer lifandi og heilbrygdum ad sjá aptur dagsins ljós upprenna yfir mínu høfdi. Gódgjarni Fadir! þín miskun og trúfesti er og hefir verid ný og ferst yfir mjer á hvørjum dags morgni; þad var þín gædska, sem gaf mjer í fyrstu lífid, og þín nád, sem vidhaldid hefir því híngad til, gladt þad og endurnært med svo mørgum gædum. O! hvørninn kann eg verduglega ad þacka þjer allt þad góda, sem þú óaflátanlega audsýnir mjer óverdugri skepnu þinni? æ! eg vil ástunda, ad vera í dag og ætid þitt gott og hlýdid barn; eg vil vanda mig og vera trúr í því sem gott er, og mjer ber ad gjøra; eg vil hafa þinn vilja og þín bodord mjer fyrir lifnadar reglur. Vidhaldtu hjá mjer þessum góda ásetningi; vaki hann í minni sálu vid hvørt þad verk, er eg tek mjer fyrir hendur í dag; stýri hann mínum ordum og athøfnum í allri minni umgengni; þá mun eg, fyrir þinn krapt, minn Gud! fá stadist þær freistingar til synda, er mínar girndir og vond dæmi kynnu ad búa mjer dag, og eg ecki fyrirsje. Verndá þú mig enn þá í dag, og haldtu mjer stødugum vid þá

 eina,

eina, ad óttast þig og elska, þá er eg viss um þína velþóknun, þína vernd og adstod; þá megna eg alla hluti fyrir hann, sem mig máttugann gjørir, Jesú Krist minn Endurlausnara, Amen!

## Qvøld Bæn.

Lofadur veri gódur Gud, sem gefid hefir mjer lífs og heilsu, ad útenda þennann dag undir sinni gædskurìku vernd og varatekt. Æ! hvad margt og mikid gott hefir þú nú audsýnt mjer í dag, minn gædskurìki himneski Fadir! þú hefir ecki einúngis haldid mjer vid lífid, heldur og þar á ofan svo födurlega sied mjer fyrir lífsins naudþurftum, gefid mjer føt og fædi, heilsu og heilbrygdi, verndad mig frá óteljandi meinsemdum og slisum, sem mig annars hefdu kunnad ad henda, og gefid mjer marga ánægjustund og mørg tækifæri til ad læra ad þeckja þinn vilja og breyta eptir honum, mjer til farsældar. Þetta, og óteljandi margt annad gott, er eg þecki ecki, hefir þú veitt mjer í dag. En — hefi eg þá lifad þennann dag, sem þitt hlýdid barn, og látid ríkdóm þinnar gædsku vinna mig til ad verda því betri, sem eg lifi lengur og eg þygg þína velgjørninga fleiri? Æ! eg finn mikinn brest hjá mjer í þessu; mig ángrar nú, ad eg er svo mjøg undir syndina seldur; æ! fyrirgefdu mjer þad samt, fyrir míns Lausnara Jesú forþenustu sakir, og vyrdstu enn þá í nótt ad taka mig undir þína vernd og gætslu; þjer einnum,

änn trúi eg fyrir mjer þegar eg sofna og veit eckert af mjer; í þinni vernd hvili eg oruggur, og ef þeßi nótt skyldi verda min sídasta, þá verdi þinn vilji, í þínar hendur fel eg minn anda, Amen!

## Ferdamanns Bæn.

Gódi Gud! þú Verndarinn allra þeirra, sem á þig treysta! í þínu nafni áforma eg nu mína reisu; vertu mín fylgd og minn vegvísari, svo ekkert mig eckert illt ad henda. Þjer befala eg mig nú og mitt áform. þú einn kannt ad farsæla mín fyrirtæki. Vertu mjer nú og jafnan nálægur med nád þiñi, og vyrdstu ad greida hvört mitt spor mjer til heilla. Afvend frá mjer ollum slisum, hættum og ólucku tilfellum, og ber mig svo á þinum hondum, ad eg steyti ecki fót minn vid steini. Gef mjer farsællega ad útretta min erindi í þinum ótta og eptir þinu bodi, mjer og minum medbrædrum til nota, og leid mig svo heilann og gladann heim aptur; þá vil eg þacklátur prísa þína gædsku, sem aldrei yfirgefur þá, er oruggir fela þjer sín efni, og í Jesú nafni setja á þig einann sína trú og von, Amen!

## Sjófarandi-manns Bæn.

Almáttugi Gud! þú ert sá vísi og gódi hofudskepnanna Herra, og undireins minn Fadir! í

transti

kraufti þinnar náðarríkir handleiðslu, byrja eg nú aum og hjálparþurfandi manneskja, þessa hættusömu sjóferð; þú þeckir best þær hættur, sem mjer og vorn litla skipi búnar eru, af ósteðugu sjáfarins hafi, er afmálar mjer dauðans ímynd á hvörri öldu, sem rís um kring þessi veiku skipsborð, er bera mikt líf. Ó! verta nú míns lífs verndari, minn leiðtogi og minn besti förunautur, því hvörjum skyldi eg þora að trúa fyrir mjer ef, ecki þjer, minn almáttugi Faðir og trúfasti lífgjafari? banna þú þínum skepnum, vindi og sjó, að granda mínu og vor allra lífi, þá hlýða þær. Gef oss forsjálega að geta sjeð við öllum fyrirsjáanlegum hættum af blindskerjum, boðum, grynningum og öðrum, en afvend sjálfur þeim óþecktu. Uppljúk þinni mildu hendi, og send þú oss þína blessun; bjóð sjáfarins afgrunni að opna sitt ríka skaut, til að uppfylla vorar nauðþurftir. Þjer befala eg mig með skipi og varnaði, leið þú oss alla farsællega, og vernda oss við ollu tjóni, þá viljum vjer lofa og prísa þína gæðsku, sem svo dásamlega auglýsist sín börn. En se það þinn náðugur vilji, að þessi reisa skuli verða vor dauðagángur, o! svo gef mjer og oss öllum vel viðbúnum að mæta vorn síðasta. Í þínum höndum er vort líf, gjör þú við oss eptir þinni velþócknun, vertu að eins vor Faðir, og gjef oss eilífa hvíld og sælu hjá þjer, fyrir vors blessaða Meðalgángara Jesú Krists forþjenustu sakir, Amen!

Bæn

## Bæn um gódann Afgáng.

Miskunsami Gud og Fadir! þú einn ert Herra lífsins og daudans, minir tímar standa í þinni hendi, þú hefir áqvardad minna daga tal, eptir vísdómi og gædsku hefir þú þad áqvardad; þar vid hughreystir sig minn andi, er eg þenki fram á mín óvissu æfilok. Æ! þú einn veitst hvad marga eda fáa daga eg á nú eptir ólifada; gef mjer því vareygdarsamar ad brúka og telja mína daga, því óvissari sem eg er um þeirra tölu og endalykt. Þetta veit eg, ad mjer, eins og öllum mönnum, er eittsinn ásett ad deya, og þareptir kemur dómurinn. Æ! gef mjer víslega ad búa mig þar undir nú strax í mínum heilbrygdu dögum, svo eg lært fái ad deya ádur enn eg dey. Gef mjer opt og alvarlega ad þenkja um mína burtför, gröfina, dóminn og eilífdina, svo mun daudans umþenking aptra mjer frá mörgum syndum, en gjöra mig ástundunarsamann í því sem gott er, og efla mína sönnu farsæld. Daudans sífelda endurminning mun gjöra mig athugasamari um sjálfann mig, vareygdarsamann í medlæti, og vongódann í mótlæti. Og þá mín daudastund loks adkemur, svo gef mjer ó Jesú! í krapti þíns dauda, ad yfirvinna allar daudans ógnanir, svo eg mætti vel tilreiddur, med gladri von og óskelfdri samvitsku skilja vid heim þenna med öllu því, er mjer vænt um þykir í honum, og innleidast í þá sælu vist, sem minn blessadi Lausnari og Bródir Jesús, hefir mjer og öllum trúudum afrekad, fyrir sinn dauda, Amen!

## Signingin.

Inafni Guds Fodurs, Guds Sonar og Guds heilags Anda.

## Drottinnleg Bæn.

Fadir vor! þú sem ert á himnum. Helgist þitt nafn. Tilkomi þitt ríki. Verdi þinn vilji svo á jørdu sem á himni. Géf oss í dag vort daglegt braud. Og fyrirgéf oss vorar skuldir, svo sem vér og fyrirgéfum vorum skuldunautum. Og leid oss ecki í freistni. Heldur frelsa oss frá illu. Þvíad þitt er ríkid og mátturinn og dýrdin ad eilífu, Amen.

## Blessunar Ordin.

Drottinn blessi mig og vardveiti mig! Drottinn láti sína ásjónu lýsa yfir mig og sé mér miskunsamur! Drottinn snúi sínu augliti til mín og géfi mér frid! Amen!

